# Underviiſun
um þá
# Iſlendſku
# Savdfiár-Hirding.



QVOD FELIX
FAUSTUMQ; SIET.

Prentad í Hrappsey
af Gudmunde Olafs ſyne 1778.

C. LINNÆUS in Systemate Naturæ.

*Ovis cum Ariete, Vervece, Agnoque edit imprimis Festucam ovinam, in arvis Bursam pastoris, læditur a Pruno spinosa, Eqvifeto, Flammula, Antherico, Kalmia, Myosoide aqvatica, Anemone nemorosa. Parum bibit, ab aqva stagnante vermes Duodeni Hepatisque; præcavetur muria; mutat ætate dentes; fert Lanam; lætificat pascua; timida pellit hostem calcitratione, urina; Mas unus sufficit* 20. *fæminis, gravidis* 150 *diebus. Opilio pera pedoqve instructus & cane e caula minus clausa educit balantes greges in campos siticulosos, apricos. Infestatur. Hippobosca, Pediculo, Oestro, Acaro. Laborat Vertigine, Hydrope, Phthisi, Ictero, Hepatide.*

Til

Hoi-Edle Hoi-Velbaarne

Hr. Lauritz Andreas

Thodal

Kongl. Majestets til Danmark og Norge etc.

Hoistbetroet Stift-Befalings-Mand over Island og Færøer.

Høi-Velbaarne
Hr. Stiftbefalings-
Mand!

Naadige Herre!

De bevægende Aarsager, som en Forfatter har at egne og tilskrive en Stor Mand det Verk eller Afhandling, som han udgiver: kand være atskillige:
Tak-

Taknemmelighed, Hoi-ag-
telse, Kiærlighed ere de ree-
neste; men saasom Egen-
nytte, naar den tages i
sin egentlige Bemærkelse,
blander sig desto heller i de
mennisƙelige Handlinger,
som den grundes umiddel-
bar i en Aands Natur, og
kand ofte være ædel og al-
deles usƙyldig, saa finder
den og ofte, om ikke altid
Stæd i bland disse bevæ-
gende Aarsager. End-
ſkiøndt jeg nu tilstaaer at
*3 alle

alle disse Aarsager ere hos mig, saa er der dog endnu een, som giver mig Andledning at tilskrive **Deres Høi-Velbaarenhed** denne min liden Afhandling om den Islandske Faare-røgt.

**Deres Høi-Velbaarenhed** haver Selv anmoded mig om at skrive den; og endskiondt jeg underArbeidet ofte fortrød, for-

formedelst min liden Erfaring, at jeg ikke den Gang aldeles undskyldte mig; saa dog, da Deres Høi-Velbaarenhed efter at have denne Afhandling igiennemseet, bifaldt den og holdt den værdig ved Trykken at bekiendtgiøres, blev jeg til Freds stillet og fik der af en ny bevægende Aarsag at tilskrive Deres Høi-Velbaarenhed den samme.

Forvisset derfor om Deres Høi-Velbaarenheds Naadige Velbehag forbliver jeg med ald Ydmighed og Hengivenhed

Deres Høi-Velbaarenheds

Büdardal
d. 24. Decembr.
1778.

Underdanige Tiener
M. KETILSON.



# Formaale.



Hannibal, einn Serklendskr Hers-hofdínge, þá hann fór med her-nad á móte Rómverium fyrer sunnan Fiall, heyrde einn Skólameistara, sem het **Phromio**, halda rædu um bar-daga- og hernadar-reglur, **Hannibal** heyrde rædu hans til enda med gódre gadmgiæfne; enn þá hann var adspurdr, hvornen honum hefde rædan líkad, svara-de hann: **Eg er alvanr vid þad ad heyra foolk tala um þa hlute, sem þad hefr ei vit á.** Þessir



mega

mega Bændr svara, þá þeir her sia ad eg fyrerskrifa þeim reglur um þá hlute, sem þeir miklu betr kunna enn eg, og eru vaner vid frá Barndóme, þeir og þeirra Forfedr frá því Ísland byggdez.

Þó þarf eg ei álas Bænda ad hrædaz, þeir eru optast í þvilíkum efnum hiner bestu og vægdarsomustu dómarar: hiner, sem þikiaz meire, og med hádskrifum og hádvísum adfinna, og vita þó ei kanske ne reynt hafa meira, eru ei andsvars verder. Sú er þó nú bót í mále mínu, ad eg hefe þennann Bækling skrifad, epter Hans Hávelborenheita Hr. Stiftamtmans **Thodals** tilmælum, sem hefr hann sídan skodad og ályktad verdann ad prentaz; því þó eg se ei eins vanr Fiárhirdíng eins og Bændr, sem daglega fáz vid hlutinn,

þá

þá hefer eg þó optast frá barndóme haft heinugleika til ad nema adferdina; sumt hefer eg siálfr vanad yngre edr ellдre, flestallt umgengez, enn allt teked til yfervegunar og epterþánka af þvi, sem eg hefer um Fiárhirding skrifad, og þar fyrer utan haft skemtun af þvi, ad tala vid reynda og forstanduga Bændr um þad, sem Fiármedferd og odrum búskapar háttum vidvíkr. Greinelegar og skipulegar reglur eru þó alltid gódar og nytsamlegar, eins þeim sem hafa lært einn hlut af vana, og hlutrinn er miklu avdnæmare, þá menn læra hann og vana epter reglum, heldr enn reglulaust. Ad sönnu verdr eingenn hlutr lærdr án reglu, enn þad skipter miklu, hvort reglurnar eru greinelegar og skipulegar, edr so óvissar og óskilmerkelegar, ad madr má so sem siálfr skapa ser reglur. Og þó siálfskapad-

skapadar reglur af gódu vite og lángre tilraun, seu kannske hinar bestu, þá er hlutunum optast so vared, ad þeir mega ei epter þeirre laungu tilraun bída. Vanenn giører hiá Bændunum þad, sem reglurnar ega ad giora, og þvi er einum óvonum alldrei vid fe sleppt, utan einhvør vanare líte til med honum; enn ef sá óvane fenge þá greinelegar og skipulegar reglur, munde hann miklu fyrre fullnuma verda, allrahelst þar undervísun Bænda í þessum greinum er skialdan onnur, enn ad sá únge og óvane ser þá giora hlutinn, og fær ad heyra nockra adfyndne þá honum mistekst. Nú, fyrer þvi ad Sauðfenadrinn er sá helste kiarne og mergr vorrar lífsbiargar og máttarstytta búskapar vors, þá hefr Háyfervoldunum þótt naudsynlegt ad láta þar um útgánga, til almenníngs nytia, eina Undervísun, sem

nú kemr her med Þrikt fyrer siónér. Þeñann litla Bækling um̃ Fiáhirdingina hefr ei einasta Há-Velborenn Hr. Stiftamtmadrinn siálfur yferskodad, heldr og fenged hann Hr. Amtmanninum og ødrum gódum mønnum til yferskodunar, og hefr Hr. Amtmadrinn vered so gódr, ad uppteikna nockud Þad, sem honum hefr Þótt helst athugaverdt, hvar um̃ eg hefe og geted í siálfum Bæklinginum. Eg hafde og synt hann nockrum greinargódum mønnum, og hefr Prófastr Síra **Guñar Paalsson** gefed mer nockrar gódar hugvekir. Lángt er frá Þvi, ad eg fyrer Þetta halde Þennann Bækling fullkomenn, edr ætle ad her seu fram̃settar allar Þær reglur, sem víd góda og skinsama fiárhirding brúkaz Þurfa, edr ad allar Þær reglur, sem eg hefe tilsynt, seu fullkomnar og gódar, so ad ei kunne ad-

raz

gar betre ad fáz, enn þetta hefer eg þó giört so sem eg hefe best getad, og vil til þacka taka ad þeir, sem annad meira edr betra vita, undervíse mer þad, so þad giæte sídar ollum til nota alkunnugt orded. Sinn er sidr í lande hvoriu, segia menn, og í þessu efne má þad segia, ad siñ se sidr í landsfiórdúnge, hvorium, ef ei í hvorre sveit, og munde þvi mega góda undervísun og reglur samandraga af þeirre ymeslegre medferd á savdfe í ymsum herodum, hvar sem hana alla visse. Þad hefr vissum monnum þótt helst ísiárverdt, ad eg í þessum Bæklínge hefe halded af þeim útlendsku hrútum, og giort ráð fyrer, ad þeir munde aptr innkoma. Eingenn getr þvi þó neitad, ad hlutrinn se í siálfu ser gódr, og er þad undarlegt ad óttaz þar fyrer einn gódann

ann

ann hlut, þó hann fyrer mannanna ílíku edr vanbrúkun, verde ad hirtíngu edr skada. Munde þad gott fyrer eitt óstírelátt barn, ad eckert hrís fengez meir, af þvi þad hefr einu sinne á þvi kent? Munde þad gott ad þar være eingenn, siór, eingenn eldr, eingeñ vindr, af þvi ad menn af þessum hlutum hafa opt miken skada haft? So mega útlendsker hrútar nú verda ad hinum bestu og vissustu notum og þad þeß heldr, sem skadinn hefr giørdt oß hyggna, og med þá munde nú verda giætelegar fared. Viß Merkes=madr hefr sagt mer, ad þá Baron **Hastfer** heyrde uñ fiárpestina her, hafe hann sagt, ad þó hún være ein med þeim stædstu óluckum, sem Island hefde yfergenged, þá yrde þo sú Engelska fiártíngum her til

Islands

Islands mestu blómgunar. Enn vili menn álíta fiárpestina fyrer serlegt Guds reide straff, sem hún og vissulega er; þá hiálpar ei ad ætlaz til ad umflýia þad framveges med þvi ad fordaz hrútana, heldr med þvi ad betra sig, og være þvi óskande, ad góder og vitrer menn, vildu telia almúga trú um þad, sem betr gegner.





# I. Cap.

## Um medferd a Lombunum.

### §. 1. Inngangrinn.

Þad má sýnaz litlu vardá á hvoriu madr byriar, þá hann skrifar umm Fiarhirding vora, hvort heldr á Fiárhúsunum, Fódrinu, Beitinne, Hrútunum og so frammveges, þegar ad lyktum vinnz allt upp, sem umm Fiárhirdínguna þarf ad tala; enda er þetta og nockud under Tilganginum komed, og þvi byria ýmser ýmeslega; so sem á Ullargiædunum edur Abatanum, þeir sem vilia kenna adferd til ad umbæta Savdfe sitt med útlendskum Hrútum. Enn med þvi eg vil her serdeiles tala umm medferd á voru innlendska Fe, vil eg fyrst byria á Lombunum

 num

num og so fara framepter: þiker mer þad reglulegast og eptertakanlegast, ef þá y:de allt þad týnt, sem athugaverdt er um Savdfed á hvorium aldre. Er þá og vandaminna um þad gamla Fe, þá þvi únga verdr vel afloked.

## §. 2. Um Fiárburdin.

Þad er ollum þeim í siálfræde, sem Fe sitt heima hafa, ad láta lombin fædaz so seint edur snemma á vorinu sem þeir vilia, þvi þad skedur epter þvi sem seint edur snemma er hleypt til á veturnar, hvar um sídar Cap. 7. §. 9. verdur talad. Einasta þeir, sem láta Fe gánga ute allann vetrinn í óbyggdum eyinum, eru ei í þvi siálfráder, þvi þeir verda ad sæta vedrátt og Siógiæftum til ad komaz i eyarnar, og þvi taka þeir optast þad fyrsta tækefære, þegar sá tíme er komenn, og verdr þvi optastnær Fiárburdr hiá þeim í fyrra lage; má þad og fyrer þvi, ad Fe þad sem gengr í gódum eyinum sinulitlum og mátulega i:sett, gengur í bærelegum vetrum optast sæmelega feitt undan, og fæder þá lombin vel ad vorinu. Er slíkur Fiárburdur ad minne

minne ætlan og egen radn allgódr. Her mætte nú ad seunu nockud tala um̃ Fódur og medferd á Aunum medan þær gánga med, enn eg læt þad bída til sídar. Siá Cap. 7. §. 12.

## §. 3. Um sama.

Þar um̃ kemur monnum ei saman, hvört betra se ad láta Lombin fædaz seint edr snemma. Sumer segia ad snem̃alen Lomb verde væune enn þau sídolldu. Adrer segia ad þad se háske ad láta Lomb snemma fædaz, þvi verde vorid hart, seu bædeÆr og Lomb í vede; enda seu nú voren faren þvilík ad gioraz, þar veturner optast leggez til þeirra. Þeir segia og ad Lomb þau, sem fædez um̃ midiann Fiárburd, seu hin þrifa bestu og best til vetur hafnar. Vilia þeir heldr setia á slík lomb medallæge stór og þrifagod, heldr enn hin sem eru stærre og hrikalegre. Þeir segia líka ad Ær, sem snemma bera, verde orsyga og halde ei einsvel á ser fram̃ epter sumrinu og hinar sem seinna bera; og iafnvel verde þýngre á fódrum vetrinnum epter. Allteins eru í þessu efne sun-

burleitar meiníngar gódra Búsíslumanna í ödrum löndum: sumer halda snemboren Lömb hin bestu; adrer segia ad þá fædez Lömbinn í tækann tíma, þá Ærnar fáe grænt gras ad bíta. Skylde nú epter þessu sídasta fara her hiá oß, þá ætte se her vestanlands ad bera í Fardögum í fyrsta máta, þad er seinast í Majo og fyrst í Junio, og vidlíka fyrer nordan hvar vetrarlavkurinn snýz upp í gródur iafnótt og snióenn uppleyser. Þetta má og verda fyrr edr seinna epter þvi sem voren eru. Savdrinn týner og snemma grænt þó stærre peníngur finne ei til beß, og víst hafa gamler menn ei epter þessu fared; þvi ennnú heyrez sú regla til bænda, ad Lömb ege öll ad vera komenn í steck í Fardögum. Þad er; ad Savdburde á þá ad vera loked. Og þó voru þá ei Fardagar seinna enn nú, þvi Sumar geck fyrre inn epter gamla Stíl, heldr enn nú.

## §. 4. Enn um sama.

Þegar rett er adgád, eru þesser gódu menn, sem í fliótu álite sýnez so gagnstæder hvorer ödrum í meiníngum sínum, þad

þad þó ei so miøg kravn og veru; þvi hvoru-
tvegge vilia ad ærnar um burdinn hafe
nóg og gott Fódr. Þeir fyrre, sem vil-
ia ad Lombin fædez snemma, ætla til ad
madr seti ei meira á ad vetrinum, enn
hann gete vel haldid framúr, so ad ær-
nar fæde vel ad vorinu; hiner sídare,
sem halda betra ad láta lombin fædaz
seinna, giøra rád fyrer ad hey se ei til
ad gefa fe, þó þurfe, þá þad fer ad be-
ra og vilia þvi láta Savdburdinn bída
epter grænu grase. Þar fyrer seger í þvi
Engelska Bwskapar-Fræde, ad madr
ádr hann tilhleype á vetrinum skule huxa
sig um, hvort hann mege vænta ad grænt
gras verde komed um Savdburdar tíman
edur hafe hann nóg og gott annad fódr
handa ánum ef þær bera fyrre. Mín
meiníng er ad þad se betra ad láta Fe
bera seint, þar sem þad lifer mestpart á
útegánge; þvi skialdnar fæda þær Ær vel,
enda verda ørsyga og halda lítt á sér nýt
þá á sumarid sæker. Enn þar sem Fe er
vel halded af heyium, eda útegángur er
úrtøku gódur, þar held eg betra ad láta Fe
bera fyrre; þvi þad hefer eg opt sed ad
Lomb þó borin seu í froste og kafalde,

 lifa

lifa og lifa vel og ser eckert á þeim sídar, þegar þav hafa nóga miólkina af módurinne. *)

## §. 5. Um Snemmalen Lømb.

Vor egen reynsla stadfester þad, ad snemmalen Lømb, sem fá nóga miólk og góda sumarhaga, verda stærre og vænne enn hin sídoldu, þó hafe eins miólk og haga og er eg miøg so á þeirre meiníng, ad hvør sá sem vilde koma ser upp gódu og vænu Savdkyne, giørde best ad velia þartil snemmboren Lømb, og ei skylz mer þad, ad stór og væn Lømb seu lakare til vetrar hafnar enn hin þav minne. Vera kann þad ad þav þurfe meira; enn þad er tilvinnande, þvi epter þvi verdur Ærin edr savdrinn þá hann eldez, sem hann hefr vered

*) Hr. Amtmadr Olafur heldur hentugastann Fiárburdar tíma þá 3. Vikur eru af Sumre. Eg er þvi og samdóma ad Asavdr, sem ei hefr meire enn almennann vidurgiørníng og fódr, mege ei fyrre bera. Enn annad held eg um þær sáar ær sem madr tæke frá og giørde miklu betr til ad fá góda brundsavde undan til Framtíngunar.

vered úngr vænn og átt gott. Þetta
piker nú bændum ei samstemma vid reyn=
slunа; enn þeirra reynsla nær sialdan leng=
ra enn í fyrsta lid, og er hún þvi miøg
ómerkeleg. Edr hvoriu mun gegna ad nú
heyrez sú almeneleg umqvortun ad Kýr og
Ær seu nú miklu lakare enn þær voru til
forna og vita Bændur ad segia frá þvi
ad á þeirra úngmennes árum hafe Kýr
og Ær miólkad so og so margar merk=
ur, sem nú miólke þridiúnge edr hel=
mínge minna, og ei get eg siálfann mig
þar um úr vitne reked. Þad er ómót=
mælanlegr sannleike, ad þegar skepnan
horud hlýtur ad bera fóstr sitt, og und=
aneldid sídan fær ei ánægianlega miólk
af módurinne; kome þad nú her ofaná
ad úngvidid fáe misindes fódur fyrsta
og annad ár. og iafnvel þó gott fódur
fenge, enn sídan þá þad á siálft ad
fæda fóstur sitt fyrer og epter burd, er
þad láted verda horad og þessu fare so
fram um nockra lide, þá úrættez skep=
nann so, ad henne verdr med aungvu
móte i lag aptr komed, nema med hinne
mestu og bestu giof og medferd, og þad

 þó

þó ei fyrr enn epter þriá edr fióra lide. Nú mun eingenn neita þvi ad þad se betra ad hafa gott Savdakyn sem vel miólkar, vel skerz og gefur mikla og góda ull. Slíku kyne giæte hvor bónde komed ser upp ef hann tæke frá nockrar Ær hvor epter sínum efnum og hefde þær í odrulage, giorde þeim eins vel og kunum og lete þær fá þegar 5 edr 6 vikur være af vetre*) og kiæme ser so

*) Hr. Amtm. Olafr seger ad kuldinn og handvolkid, sem þesse sneḿbornu lømb verda ad útstanda, seti kyrking í þav. Þetta er satt og med margfaldre reynslu stadfest. Þetta kenne eg þó efnaleyse og bágindum vorum, sem bæde vantar húsrúmid hentugt og fódr bæde nóg og gott, og veit eg þvi vist ad hann mune hafa sed þav lømb alin uḿ sumarmál, sem á fráfærum voru avngvu betre enn þav sídaldare. Enn alt er þad annad uḿ fáeinar ær, sem madr tæke útaf og giørde úrtøku vel og lete Lømbin hafa kró útaf fyrer sig í húsinu, þó þær bere uḿ sumarmál, til þeß ad fá góda Hrúta. Þad vilde til eitt sinn ad 10. Ær her hiá mer, sem gengu í eyium, báru uḿ edr fyrer sumarmál; vorid var

so smámsaman upp þvi kyne, þá þó hann kostade Kýrfódrinu uppá 6 Ærnar munde einkes í sakna um miólkina, heldur mundu þær vel miolka fram á Jól og iafnvel leingur og sídan ad vorinu miklu betr enn nockur kýr. Eg hefe til þeß eitt líted dæme nordanlands og eg hefde fyrer laungu vered búenn ad reyna þad, hefde ei Fiárfaraldrid aflagad þad allt fyrer mer. Nú hefer eg byriad med einar 6. ær og vona ad fá eins gott gagn af þeim eins og kune, og get eg þá haft einne kunne færra. Edr hvad er sú utlendska Framtingun [Uppdrifníng] annad enn þetta? edr mun þetta ei vera grundvollr til þeß, sem Háyfervoldin hafa boded oß um Savdsed i Alþíngesb. 1776. Nr. 21?

 Ull=

var kalt og hardt og gródr kemr ad allra søgn, seinna í eyium enn á lande; samt voru lømb þeße á fráfærum mesta afbragd og miklu vænne enn ønnur lømb sídbornare bæde undan eygengnum ám og so þeim sem á lande høfdu vered. Sama hefr mer og reynz um eitt lamb á lande bored, enda var módurinne gesid tada græn og hún teken útaf.

Ullar góda Hrúta vántar; enn þeir koma med tíd og med Guds hiálp betala oß þad margfaldt aptr, sem ver høfum af þeim edr rettara sagt, af mannanná medferd á þeim, skada lided. Enn þó madr hefde þanneg eitt edr fleire ásavdsar kúgilde, sem hann lete fyrr berá og helde betr, þá er ei þár med sagt ad madr skylde so fara med allt sitt fe, utan hann fyrst kiæmez i skilníng um þad, ad fátt fe vel halded giorde eins miked gagn og margt fe illa hallded.

## §. 6. Fátt fe vel halded giörer eins miked gagn og margt illa hallded.

Og med þvi, ad sá sem vill koma ser upp gódre Fiártegund, hlýtur ad byria þar med strax á Lombunum, þá vil eg nockud framar um þetta efne geta. Enn um þad ad fátt Savdfe vel halded giore eins miked gagn og fleira illa hallded er bágt ad yferbevísa fólke utan med reynslunne, þvi almenníngr keppez vid ad hafa sem flest, og er þar i nockur vorkun; þvi þad er almennelegt

ad

ad sveita bændur betala miked af: skuld-
um síuúm med Savdum yngre og eld-
re, og þó þeir fáe þá vænu savdina
nockud betur betalada, þá samt, þegar
þeir fara miklu uppá ad kosta, fá þeir
ei sinn kostnad eins vel betaladann, eins
og þá þeir litlu uppákosta. Þad er
annad ad þar sem ei eru góder sumar-
hagar þar tapar madr miklu af sínum
uppákostnade. Þad er gomul bændatrú
og meira enn munnmæle ein, ad kýr
sem spikadar gánge út á vor giore ei
so gott sumargagn eins og hinar sem hafa
þá einasta miólkurhold, sem menn so kalla.
Þetta hygg eg vel mege til sanns vegar
færa, og ætla ad góð miólkurhold, sen
þar best, sem sumarhagar eru lakleger;
enn þar sem sumarhagar eru betre edr
úrroku góder, þar mundu og kýr, sem
vel feitar genge út á vor, giora miked
gagn. Vidlíka vil eg um Savdfe dæma
og held þad ótvíluga Reglu, sem stendr
í þvi Engelska **Bwskapar-Fræde:**
„ Ad laklegt Fiárkyn giore meira gagn í
„ þeim hogum hvar þad hefur góð þrif,
„ heldur enn besta Fiárkyn, sem ei hef-
„ ur goda sumarhaga." Þad er **Eld-**

ed at Vetrinum at ad sambiood-da hagagiadunum at sumrinn. Vildu menn nú þessu fylgia munde betr fara og þó hvorutveggiu, bæde sá sem hefur góda sumarhaga og kostar vel uppá se sitt ad vetrinum, og so hinn sem hefur lakare sumarhaga og kostar minna uppá, sæmelega vel ná gagne sínu, þvi sá sem minna tilkostar getr í þeß stad haft fleira. Enn hvorutveggiu skyldu þó stunda ad hafa gott fiárkyn og halda nockrar ær ser í lage betur og hafa Brundsavde af þvi kyne til ad vidhalda sínu góda fiárkyne. Være þesse adferd almenn, munde se hiá oß miklu sídur úrkyniaz; þvi þó þetta góda kyn í hardindes áre kynne hiá Bændum ad aflagaz, verda þó alltíd nockrer epter, sem heyiabyrgare helde sínu kyne vel vid, og giæte þá hiálpad hinum til Framfingunar aptur med gódkyniudum hrútum.

## §. 7. Um sama.

Roksemder til þeß ad madr hafe meira gagn af fáu Fe velholdnu heldur enn af fleiru illa holdnu vil eg ei marg-

ar

ar sækia í útlendsk Skrif. Sá ypparlege Svenske Boye seger „ad 20. Ær „ vel haldnar giöre meira gagn enn 50 „ illa haldnar." Hitt er vissara sem vor innanlands reynsla kenner oß. J Nordurlande serdeiles á útkiálkum hvar Savdse fyrer vetrar ríke verdur hartnær ad gefa eins og kúnum og hvar fiárhey optastnær eru todugiæf og sumarhagar úrtöku góder, (Þvi Þetta Þrent fylgez Þar optast ad), Þar miólka ær iafnadarlega á sumrin 2 merkur og Þó optar 3 enn margar 4 og 5 merkur; enn her hiá oß Þiker Þad gód ær sem miólkar 1. mørk i mál og er Þó orden hartnær geld á Mikelsmessu; enn í Nordurlande halda ær á ser fram undir Jól og er Þad Þar í sumum stødum eckert óveniulegt ad 30 ær Þar miólke fulla fiórdúngs fötu um og epter vetur nætur. Enn vid steckin á vorin geta Lombin ecke torgad úr edru juvrinu,*) so bóndin hefr Þar nóga biorg strax sem se ber, J Fliót-

*) Pad er íhugnarvert og Þó margreint ad störuse er miklu helðr tvilembt og iafnvel Þrílembt heldr enn Landse.

Fliótum í Skagafirde miólkar Ærinn vid Steckinn 3. merkur og fæder lamb sitt, her hiá oß fæda ær valla lomb sín og bondin hefur litla edr avngva biorg af þeim fyrr enn á Fráfærum. Og alment er þad ad þá einn Bónde kemur úr þessum stodum og fer ad búa í lákare sveitunm og tekur upp þar brúkanlega fiármedferd, þá þikia honum 30. ær ei eins gódar eins og 10 ær voru ádr. þad er ecke neitt ovenjulegt ad í þessum stodum skerez gelder savder þrevetrer og gamler med 2 fiórdúngum mørs og kanske meir; enn her hiá oß eru þeir almennelega um fiórdúng og þar epter eru þeir í hvorutveggiu stodum uppá holdid. Frá ullinne hefer eg ei heyrt so greinelega sagt; enn sannlega mun hún epter hinu fara. Aller geta af þessu sed hvør munur er gagnsmunanna á gódu og slæmu fiárellde. Enn þó mønnum í lakare sveitum og her hiá oß tiáe ei ad ætla til slíks ábata af savdfe sínu, þar sumarhagarner búa; þá giætu þeir þó mikla meira gagn af þvi haft med gódu elde enn þeir hafa; enda mundu sumarhagarner betur reynaz ef þeir væru

med

med meira forstande, brúkader enn þad skedr almennelega, hvar um eg vil sídar líted ræda. Eg giæte enn nú fleire tok her til.fært, enn þeß giörez eingen þörf; þvi fleser bændur iáta þad satt vera ad saudurinn giöre epter þvi gagn, sem honum se vel giort,*) og meira baggar. bænd-

*) Hr. Amtm. Olafr er á þeirre meining, ad þad se betra ad hafa fleira fe, midr halded, og so margt, sem ein jörd getr flest bored i tillite til sumar- og vetrar- haga, samt útheyes giafar til hiálpar med úteganginum. Þetta er ecke mer á móte, þvi eg hefe sömu trú og medferd her þar, sem eg er, hvar eg biarga se mínu miked med útegánge á vetrum, enn hefe laklega sumar haga. Enn være eg í nordurlande hvar vetrarríte er miked og sumar hagar úrtøku góder, þar munde eg hafa adra medferd og giöra vel se mínu; þvi þad er mín hofud regla, sem eg hefe sett i næst forersarande §. 6. ad eldid á vetrum á ad sambióda hagagiædunum á sumrinn. Þeßvegna þó madr lete kappala nockud af se sínu, enn sumt útegánga, og þad fyrra miölke þó ei betr enn þad sídara, þá bevísar þad eckert, ef sumar hagaaner

bændum þad ad þeir tíma ei ad fárga nógu af saudkyndum sínum á haustin, enn ad þeir ei vite og medkienne ad hór-ad se undan vetrinum giører þeim líted gagn á sumrinu.

§. 8

ner sambióda ei eldinn, og á Draghálse í Borgarfirde hefe eg so tillited ad þar munde avngvanvegen so góder sumar-hagar eins og í snióa sveitum nordanlands. Þad er og athugande, hvørt eldes se hefur góda fiøru, þvi soddan se giører miklu mest gagn; þarf þvi alt vel ad skoda og athuga ádr enn um þetta verde í hvorium stad rettelega ályktad. Þad veit eg ad 6. Ær taka upp kýrfódrid þá þær standa vid allann vetrin og fá so sem þær vilia; (Cap. 3. §. 6.) og vil eg þá heldr, þar sem eg er nú, koma fram á þvi 18 edr 20 Ám. Enn í hardinda sveitum þar sem se verdr mestallan vetrinn vid hey ad standa og hefr sialdan biørg úte, þar má ei af áne klípa, þó henne seu ætlader 3 og jafnvel 4. kaplar heys, og þar held eg betra ad giøra vel 6. ám heldr enn draga af þeim og hafa 1 edr 2. fleira. Enn ad se miße aldrei qvi-din og ad þvi se giørt þvi betr, sem meira álídr, fyrer þvi hefe eg rád giørt i Cap. 7. §. 7 og. 12.

## §. 8. Um̃ miolk handa Lombunum.

Eg sagde §. 6. ad sá, sem vilde koma ser upp gódre Fiártegund, yrde ad byria þar med strax á Lombunum. Þetta vidurkenna bændur allmarger, ad skepnan verde epter þvi væn, sem hún á gott í uppvextinum; enn hvørt þeir marger lifa epter þeirre reglu má stórum efa; þvi ef so være, lete þeir ei ásavd sinn horadañ undangánga á vorin. Um̃ hina vil eg ei tala, sem vegna biargarleyses verda ad draga af lombunum vid steckinn til ad sedia húngr sitt og barnanna. Adrnefndr Svenske Boye seger: „Sá voxtur og krapt„ar, sem lombin fá þá fyrstu 14 daga, „ad þeim búa þav þar til þav eru full„orden," og rædur þvi til ad brúka medøl til þeß ad avka miólkina í ánum. Eñ ver þurfum eingen ønnur medøl enn ad giora ãnum vel á veturnar, þá fæda þær nógu vel, so ad lombin iafnvel ecke torga. Hitt er varudar vert ad taka miolkina af Lombunum um̃ steckiartíman, utan þá sem þav leyfa. Undantek eg seinustu vikuna fyrer fráfærurnar, þá má ei einasta ad

saklausu taka miólkina af þeim, heldur fer það betur, so það þeß heldr legge sig til að bíta grasið, og að þeim bregðe minna við þá frá er tært.*)

## §. 9. Um Hws lomb.

Ef einhvor vilde koma ser upp góðre Fiártegund epter þvi sem á er vikeð í §. 5. með þvi að láta nockrar ær vel haldnar bera fyrer mál og meðan se liggr iñe, þá yrðe hañ að hafa til þeß serlegt hús vel rúmgott. Aðrnefndr Boye, sem var ein Svenskur Herramaðr segez siálfur vitia uñ ær sínar á hvorium eiktar freste bæðe nott og dag meðan sauðburðrinn yferstendr, til að taka frá þau nýbornu lombin; og so mætte oß Islendíngum iafn=

*) Talað hefer eg við reynda og forstanduga bændur, sém hafa sagt að þau lomb yrðe lakare epter, þó vænne være á fráfærum, sem miólk være ei aftekin, heldr enn hin, hvar ærnar være vel miólkaðar við steckinn. Þeßu má vel til sanns vegar koma: lombin ega að hava framan af so mikla miólk, sem þau geta torgað; enn þá álíðr skal hana af þeim taka og mest seinustu vikuna, so þau veniz á að bíta grasið.

iafnvel þó embætte hefdum, geistlegt edr verdslegt, ei þikia þad óvirdíng edr ónæde ad líta siálfer med til kyndanna vorra, enda munu sum hiú þeß med þurfa; edr hvar ega bændurnir árvekneß dæmin ad læra, ef þeir siá þavg eingen til vor? Ei þarf bændum rád ad kenna til ad króa af í ødrumhvorium edr bádum gerdunum þær nýbornu ærnar med lømbunum medan þav eru fyrst ad komaz á spenann og stirkiaz, þvi þar um láta ser aller umhugad vera. Og þó menn vildu þad upptaka ad láta nockud af fe sínu bera fyrer mál, munu fæster so miked ad þvi giora, ad ei være hægt yfer ad komaz og um ad hirda. Enn þó segez Boye „ alltíd haga „ þvi so, ad iafnaldra lømb seu tilsam„ ans i somu kró, sem hann seger hafe „ stærre nytseme enn nockur skylde trúa." Enn þetta er egenlega meint um Hús lømb, sem eru inne boren, þvi þeim verdr ogso ad stia og er best ad láta þav allt af í stíunne vera úr þvi þav eru 2 edr 3. Nátta og hleypa þeim til qvøld og morgna og tvisvar á dag. Og skylde

þad vara 14 daga edr lengr þar til þav giæte útegenged med mædrunum og ſnapad grænt gras, hrde ad ſetia hiá þeim meis med gott velhriſt og vel ſmátt hey og kenna þeim át eins og kálfum. Þó er þad athuga verdt og ómiſſande, ad loſa lombunum ad leika ſer ſtund á hvorium dege medan ærnar eru úte, ef þav geta ei fyrer vedrs ſaker fared út med þeim, og þó þad ſe ei lengre tíme eñ á medan vered er ad vatna ánum. Boye rædr til ad gefa þeim vatn ad drecka þá þav eru faren ad eta heyid, enn þeß þurfum ver navmlega; beſt ad loſa þeim út med ánum þá þav eru ſtálpud og varaz ad láta vera heitt á þeim þá þav eru inne. Enn her uñ er valla verdt margordr ad vera, þvi fæſter munu þetta upptakaz; enn þó mætte af þeſſu nockud nýta þá ſe ber fyrer mál, ſem einatt vill til ad bændum óviliugum.

## §. 10. Þær Ær fæda ecke.

Ei vil eg her uñ þad tala þá ſumar ærnar fæda ecke, þvi oll dygg vinnuhiú athuga þad og láta þá þav lombin

lombin síúga mylkiurnar edr hinar ær-nar, ef onnur lombin leyfa; enn ódigg vinnuhiú þurfa annad enn skrifadar reg-lur. Enn nú kann þad til ad bera ad fe gánge allt so horad undan ad fæst af þvi fæde, og eru þá bæde ær og lomb í fáre. Þá munde eg reyna þad ad taka Sortulíng, Krækeberialíng, Blódbiorg og annad sem eg fynde grænt, seyda þad og gefa þeim seydid; þvi þad hefr mer sagt vered ad kálfar hef-duz allvel vid á sortulíngs log; siálfr hefe eg reynt ad Hænsn má ala á kræ-keberialínge grænu soxudu einsvel og á korne; og um̃ Blódbergsins krapta efar eingenn sem munde hid hollasta fyrer þesse kraptalitlu lomb med þvi þad er sina stirkiande medal, og so munde og lingid í þessu tilfelle ad gódu verda, þó **Boye** laste þád, þvi med þvi þad er samandragande giorer þad þær sloku sin-ar og þræde stirkvare. Hvor sem þá hefde nóg af Kálrótum, Hvannarótum og þeßháttar hann giæte hæglega bætt úr miólkurskorte þessum.

## §. 11. Um̃ Stíunina.

Um̃ stíunina þarf ei stórt ad tala, þvi þad er alment ad stía lømbum þá þavg eru þriggia nátta, þvi þad eykr þeirra voxt og vidgáng. Þad er og allra góðra bænda venia ad stía snemma á qvøldin og hleypa snemma til á morgnana. og øll dygg vinnuhiú athuga þad grandgiæfelega á qvøldin, hvort nockúrt lambid er svángt, og á morgnana hvort allar ærnar taka, og halda þeim ánum á medan lømbin síúga sig full, sem ei vilia lømb sín taka, hvor ónáttura hiá fæstum ám varer lenge. Enn skylde nockúr ær fleire mál vera so ónáttúrleg vid lamb sitt, er best ad búa til handa henne dálitla kró og binda hana þar inne á nóttunne vid eitthvad, so hún giæte ei bared lambid og láta þad vera þar inne hiá henne á nóttunne. Ad venia lømb under Mylkiur kunna aller.

## §. 12. Ad bera elld i steckinn.

Þad eru nú marger farner ad kalla hiátrú og hegóma ad bera eld i steck; þetta giordu þó gamler menn og trúdu ad þá

slýge

flÿge ſkdur under fe, og ſo vard þeim eptr trú ſinne. So gengr þad nú alment, ad þá menn ſkilia ei orſokina til einhvors vidburdar, giora menn úr þvi annadhvort lÿge, edr hiátrú og hindurvitne. Eg held þó af þvi ad bera eld í ſteck og hefer eg þó aungva trú um̃ þad ad ær fáe íllt í júvred af nockrum illum anda edr onáttur-legum orſokum og þó get eg ei til viſſu ſagt orſokina hvar fyrer ær fá íllt í júvrid; ei heldr get eg þad ſkiled ad Steindepillinn fliúge under ærnar, edr þó hann flÿge, hvornen þad getr orſakad íllt í júvrinu. Um̃ Snackinn edr Tilberann vil ei tala. Eg ímída mer ad í iordinne þar fed liggr á ſumrin, og ei hvad ſídſt í ſtecknum ſe eitthvort illyrme, ſem ſkrídr á edr í júvrid og orſakar þar bólgu og ſíd-an graptrar mein edr uppviſnun. Til þeſſa get eg ad ſonnu ei ſtór rok fært, enn þó vita menn ad þad hefur tilbored ad manneſkiur ſem med beru andlite hafa ſofed á iordunne, háfa med líku móte fenged íllt í bad, og halda menn almennelega ad þad ſe yrmlínge einhvoriũ ad kenna. Gude ſe lof ad ver her í lande erum miog

so frker fyrer skadlegum ormum; enn hvor kann þó ad neita þvi ad nockur þvilík tegund kunne ad vera til medan þad er ei betr skodad enn þad er enn sked. Nú er júvur siárins bert eins og mannshor=und, og medan þad er miólkur þrúted nær þad iordunne þá sed liggr, serdeiles spen=arner og þvi kunna slík illyrme ad ná til þeß. vid þetta verdr ei vart á veturnar og er þad gott ad skilia; þvi þá liggia slík=er yrmlíngar í dáe edr skrída í fylsne. Ef þesse være nú sú retta orsøk, sem mer þiker liklegast, þá er þad vel til funded ad reka þá í burt úr steckmum med elde og reik, og er miklu betra ad halda vid gøm=lum og gagnlegum sid, heldur enn ad heim=ska menn fyrer saklavst athæfe, þó menn enn nú ei þecke orsaker verkunarinnar.

## §. 13. Um̃ Kwmgoodar Kroor.

Þad sez almenninge mest yfer ad hann hefur Krórnar oflitlar og þravng=var. Enn þad er hægra ad fordæma Bón=dann fyrer oflitlar Krór og oflitel Fiárhús, enn ad giora ad þvi, þvi vidinn vantar og vidin fær hann ei keyptann þó hann

hafe

hafe efne til. Eg vil ei innfæra her þá altof sonnu klogun og umqvortun sem Baron **Hastfer** framande madr, hefur haft nærgiætne til ad seria i sitt Skrif um **Savdatüngunina** pag. 39. Enn so ad bændur hafe ei skada af þessu efnaleyse og þaraf rísande Króarþreyngslum, þá eru þeir vaner ad hafa þær opnar á ræfrinu i einum edr fleirum stodum; og þó munde enn nú betra ad hafa nockrar litlar smugur á veggiunum þar golunagiæte. i gegnum lagt og þar med 1 edr 2 glugga á ræfrinu, so þar ut um legde hita gufuna, þvi mikell hite er miog óheilnæmur savdfenu bæde úngu og gomlu; enn kuldinn þar á móte se hann ei þvi meire, er þvi heilnæmur. Enn mest liggr á ad kallt se í Króune þegar nýbúed er ad gelda lombin.

## §. 14. Þurrar Kroor.

Þad annad sem mest er varúdar vert um Krór er, ad þær seu ætid vel þurrar so ad lombin ligge alldrei á deigu og enn sidr votu. Þetta er nú hægt ad giora medan vedráttinn er þurr, enn seu regn

um̃ ſteckiartkman, er þetta miog vandgiæft og heyrez einatt um̃qvartad. Her veſtanlands er þad almenn venia ad bera afrakſtrinn af túnunum á Króna, og er þetta medal annars óræk bevíſing hvorſu fólk almennelega vinnur á túnum ſínum hirdulaoſlega. Þvi hvorſu kann afrakſtur ad verda af túninu til ad bera á Króna ef fólk nente ad melia áburdinn ofani þad? Þeſſe afrakſtr er ei heldr godr; gánge votvidre þá er hann votur og ónýtr til þeirrar brúkunar; og ſe hann vel þurr þá verdr hann ad moldtade í Krónne og kann ad orſaka lús og kláda í lombunum, ſem þá ſtendr þeim ſyrer ollum þrifum. Ad þekia ſo Krórnar ad þær leke ecke er miog bágt, ſerdeiles þar menn verda ad hafa riafrid á þeim oped vegna hitans. Nordanlands brúka þeir líng og fialþrapa í ſínar Krór, á hvorium lombin liggia og verda alldrei óhrein hvada regn ſem giorer. Línged fæz á fleſtum bæum, og fialþrapin allvída, og þeſſa adferd held eg miklu betre enn þá ſem her veſtanlands er brúkud. Þvi lús og óþrifnadr ſtanda lombunum fyrer þrifum, hvad bændur mega alt of opt reyna.

§. 15.

## §. 15. Um̃ Broddsótt.

Vid þvi verdr ei of opt varad ad miólka ei af ánum vid Steckinn framan af annad enn þad sem lombin leyfa, utan helst seinustu vikuna, so sem ádr er um̃geted §. 8. Enn þegar ærnar fæda vel vid Steckinn og serdeiles þá hagarner eru góder, er lombunum miog hætt vid Broddsótt. Eg hefe ad sonnu aldrei vitad hana verda lombum miog ad meine, þegar steckiarstúlkan og smalamadrinn athuga þad vel qvold og morgna og hreinsa vel burtu þreckinn kríngum róuna, enn náe hann þar ad hardna fyrer þarfa gánginum so lambid gete ei hægt ser, kann þad slióst ad kosta þad lífid.

## §. 16. Um̃ sáma og ad ærnar sen ei lætnar vanta.

Þetta mun nú morgum þikia þarfleysa edr og iafnvel avdvirdelegt um̃ ad ræda; enn þessu er odruvís vared. Eg hefe optar enn eittsinn vitad þeß dæme, ad smalamadrinn, iafnvel þó alldyggr vered hafe, hefur sed í haganum einhvors=

hvorsstadar affsídes á, sem hefr nýbor-
red og hefr henne vered bágt heim ad
stecknum ad koma og med þyi hañ hefr
vitad ad henne yrde ei stíad fyrr enn
lambid være þriggia nátta, hefr þad so
fyrer smalamannsins epterþánkaleyse dreg-
ez einn edr two daga ádr ærin hafe heim
vered rekin; enn sídan þá ærin hefur
heim komed á odrum edr þridia dege,
þá hefr lambid vered í davdann komed
af því ad þreckrinn hefr vered hardnadr
fyrer þarfagánginum.*) Þar fyrer skyl-
du allar ær bæde bornar og óbornar
rekaz heim á hvoriu mále, so ad steckiar
fólkid vite hvad þeim lídr. Því opt
ber þad vid ad velhaldnar ær í gódu
haglende fá broddstálma mikenn í júv-
rid under þad þær bera, og er þá bet-
ra ad miólka þær og iafnvel nockud af
broddinum epter þad ad lombin eru bor-
in, so þav fáe þeß minne broddsóttina;
því hún kann þó ad orsaka þeim korku
ef hún er mikel.

§. 17.

*) Feit ærin í gódum høgum skeñez ogso ef
hún misser máls, því lambid torgar ecke.

## §. 17. Ef Korka kemz í lömbin.

Hr. Hastfer getr um̃ ad korka kunne ad komaz í lombin af kulda, sem þar af sez ad þav horaz, eru krympingsleg og eingia sig saman. Þar vid rádleggr hann, ad smalamadrinn súpe á hráulþse og spþte þvi hægt med fiodurstaf inní þarfagánginn á lambinu og sídan þeke þad so þvi verde heitt. Vid þessu er lombum vorum ei hætt, þegar þav hafa nóga miólk og góda um̃hirding; þó kann þetta til ad vilia þá lomb detta ofani edur í kulda vedre missa mædurnar útí haganum og so húngra, og þá munde þetta gott ráð.

## §. 18. Um̃ lws a lömbum.

Þad ber opt vid ad lús er á lombum serdeiles þá hafts liggr vid landid edr ærnar eru magrar og fæda illa. Vid þessare lús er þad almennings ráð ad bera lþse í lombin og er þad gott. En̄ þá eitt edr nockr lomb vid steckinn hafa lús enn hin ecke, er þad varúdar vert ad láta lúsugu lombin inní Kiona hiá þeim lúsalavsu, heldr verda þavg ad vera

í ann-

í annare kró, edr ef þar eru ei efne á, þá heldr ad láta þav gánga úte under áuum þar til búed er ad hafa lúsina úr þeim; þvi annars fær hvort lambid lúsina af odru og ná avngvum þrifum á medan so stendr.

## §. 19. Um lýses íburdinn.

Þad er ei einasta í tillite til lúsarinnar ad þad er gott ad bera lýse í lomb, heldr halda marger bændur ad þad savdse verde ullarbetra sem lýse er láted í lombin, og eg er á þeirre trú. Enn til þeß er best Hákalls edr Háfslýse siálfrunned, kannske og Skotulýse.*) Af þvi á ad hellaz líted eitt ofaní hálsinn og so aptr epter midium hriggnum þar sem ullinn klýfr sig, enn þó á driúgast ad láta um bógana. Ecke þarf miked lýse til þeßa vænt spónblad duger ofaní lambid, þá þad er laglega giort og

*) Talad hefe eg vid forstandugann Bónda, sem helt Sellýse best til ad drepa lús á bæde Kálfum og Lombum, og sagdez þad siálfr reynt hafa, þar sem hvørke hefde hrifed Hákals- edr Poßlýse.

og lŷſid er gott, þvi á ſtuttum tíma brítz þad ſo í, ad lambid verdur allt deckt, og þvi er ſteckiarfólke ei um̃ ad láta þad ofaní úng lømb, þvi mædurnar taka þav þá lakar epter. Enn ſe ei hentugt lŷſe til og lømbin hafe þó lús, er einſætt ad giøra þeim volgt keitubad í heitu vedre og ſolſkine til ad drepa á þeim lúſina, hvar um̃ ſídar verdur talad.

## §. 20. Um̃ Hrwta valid.

Nú er ad þvi komed ad Lombin ſkulu geldaz, og þarf þá fyrſt ad taka frá þavſem ætlud eru til Brundſavda. Um̃ þad gefa útlendſker margar reglur hvorſu hrútarner ſkule í hátt vera, nefnel. hiner líflegustu med ſtórum eyſtum, ſtóru høfde, þickvum noſum, breidu eñe, ſvørtum ſtórum avgum, lánghálſader med lavngum kropp og mikille vomb. Hrútarner eiga ad vera væner og ſterkleger med hinne meſtu lengſtu og beſtu ull. Margt af þeſſu eru godar og ómiſſande reglur og þó avngvar foragtande, þvi hvad er þad ſem adgiætenn og forſiáll

búmadr

búmadr kann ei ad fœra ser í nýt ann-
adhvort til varúdar edr epterbreitíngar.
Kollótter Hrútar þikia her hiá oß nærre
því med lagáloßúm; enn þó seger sá
merkelege Svenske Alström ad kollótter
Hrútar seu hiner beßtu til brunds, med
því ad mikell kraptr tapez vid hornin
og ad ærnar fœde hægaßt epter kollótta
hrúta. Heyrt hefer eg þad og til bœnda her,
ad kollótt fe se optaßt ullar betra enn
þad hyrnda, og eg ætla þad vel grund-
ad;*) því þó hornen seu ei orsök til
stirdrar ullar, mega þad þó vera merke
til stirdrar og óþídrar nátturu og þar
epter fer ullin á savdnum. Her hiá oß
fara bœndur meßt epter þeßu tvennu,
fyrßt hvorßu vænleg og feleg Lombin eru;
og þar næßt, hvornen ærnar eru, sem
lombin eru undan; því þeir hafa þá trú
ad lombin undan hrútunum líkez Hrúta-
mœdrunum, og so vill þad og optar
reynaz. Þad er ei umtalsverdt ad ef
menn

*) Þad er og víßt ad kollótt fe fer betr á jötum
en hyrnt fe og ríst sídr af ser ullina; enn þad
hefe eg heyrt ad þad duge midr til ad halda
á móte í störhrídum, helldr enn þad hyrnda
fe.

menn fenge her innaptr ullargott útlendſkt Kyn, ættu þau beſtu lömb af því ſama Kyne til brundſavda ad útveliaz. Og þó þeir útlendſku banne ad brúka þá hrúta ſem eru í fyrſta lid, þá er þad ad ſkilia um þær ær ſem eru í fyrſta lid, því til þeirra á ad brúkaz ſá Hrútr ſem er i annann lid. Enn til þeirra áa, ſem en nú hafa eckert blandaz med útlendſku Kyne, er betra ad brúka Hrúta í fyrſta lid, ef menn ega ei betre koſte, heldr enn ad brúka Hrúta af hreinu iſlendſku kyne. Enn á medan er beſt ad velia þau vænſtu og feleguſtu einlitu lömb til Hrúta, ſem eru undan þriſagódum, ullargódum ám þrevetrum og fiogravetra, þeim ſem vel miólka og vel gánga á vetur og eru af happagódu undaneldes kyne. Eg nefnde heldr einlit enn hvít lömb og ſama vil eg ſegia um Hrútamædurnar; því þad er harla navdſynlegt ad eiga nockurt ſavdſvart fe til ad vinna á hendur og fætur og ſo til utanhafnar fata, medan óſómenn kemz ei ſo hátt ad almúgen gánge blár og grænn bæde ytſt og inſt, ſikt og heilagt. Fleckótt fe ſkyldu menn

 ſidr.

sídr ala, þó mørgum þike þad fallegt, þvi ull af þvi verdr ei unnen í þad sem einlitt á ad vera nema húñ se kørrud. Talad hefer eg vid gódann og forsiálann fiárbónda þann, sem helt þad gott til fiárfiølgunar ad taka Tvílembínga til Brundsavda. Ef nockur fellez á þad, sem uñ er geted i §. 5. ad taka frá nockrar af sínum þrifa-bestu, ullarbestu og miólkur bestu ám og hafa þær ser í lage á veturnar, og giora þeim miklu betr enn ødru sínu Fe, hañ skylde og Hrúta undan þeim sømu velia og med skinsamre medferd koma ser upp þar af gódu fiárkyne. Hrútlømbin skal madr heldr láta vera fleire enn færre þvi nockur kunna ad missaz. Sídar í Cap. 6 verdr uñ þad talad hvad margar ær skal ætla hrútnum.

## §. 21. Uñ Lambagieldínguna.

Þá búed er þad lømb frá ad taka, sem madr ætlar til Brundsavda, þá eru hin gelt, og kunna bændur vorer allvel til þeß verks. Enn þad verdr sumum ad þeir láta lømbin verda ofgømul ádr og of-feit, og þá er lømbunum hætt vid ad bólg-

na

na og verda meint vid geldínguna. Þad er bezt ad fylgia Hr. Hastfers reglu og gelda lombin þá þav erú þriggia vikna, og hilla til þeß ad þad verde med mínkande túngle. Sá þiker betr gelda, sem dregr vel kólfana, þvi menn segia ad þeir savdꝛer sæke sídur brundin. Þegar gelder savdꝛer sækia freklega brund, og aflaga þeir þá hrútana enn svelta siálfa sig, og er hvoruꝛtveggia íllt. Lombin erú ætíd gelt ad, qvolde til, og skal þá giora kaldara í kroñe enn vant er uppi tvær edr þriár nætr.*) Gott vedr skal til þeß velia ad gelda lomb og ætla so til ad gott vedr verde deginum epter. Og skylde smalamadrinn varaz ad reka fed hart medan lombin eru í sárunꝛum.**)

 §. 22

*) Nockrer vilia láta reka Lømbin strax epter gieldínguna hægt í kringum Steckinn edr Krósna, só blódéd náe þvi sídur ad falla inn til Nírnanna, seger Hr. Amtm. Olafur.

**) Þad hefr mer sagt vered ad støkumadr i Norꝛdurlande hafe brúkad Havstgeldíng og vóru þav lømb og sídan kallader KYRNINGAR, urdu vel hyrnder savder og rífleger.

## §. 22. Um ad taka af lómbunum.

Ad enn lombunum er fráfært er þad nógu góð venia ad taka af þeim miólkina ádr og helſt ſeinuſtu vikuna §. 8. 15. þó ſkal þad gioraz ſmámſaman, fyrſt liited, enn 2 edr 3. ſeinuſtu morgnana eru ærnár reknar heim í qvíar og þar miólkadar og þó ſkal ſkilia lombunum nockud epter.

## §. 23. Um Lambamørkunina.

Þegar Lombunum er fráfært edr litlu ádr, eru þau morkud, og veit eg þar eckert athugavert vid annad enn venjulegt er. Enn ſá ſem vilde koma ſer upp betra ſaudakyne, yrde auk þeß veniulega marks á eyrunum ad einkenna lombin ecke einaſta þau ſem være af betre tegund heldr og ſerhvorn lid þeirrar betre tegundar, ſo madr þekte hvorn lid frá odrum, til þeß ad Hrútarner af þeim ſama edr lægre lid være ei látner lemba þær ær, ſem eru af ſama edr hærre lid. Ad víſu eru marger bændur ſo gloggver og minnesgóder ad þeir þeckia og muna undan hvorium hvad er; enn hitt er þó viſſara ad ſetia einkenne uppá hvort fyrer ſig.

§. 24.

## §. 24. Um̃ Fráfærna tímann.

Fornmenn hafa fært frá þá 2. mánuder voru af sumre, þad syner Lands L. b. 42. C. þvi þá áttu þeir ad fara úr Húshaga med Fe sitt. Annar mánudr sumars, hvorn þeir kolludu **Eggtiid** edr **Stecktiid**, endar í fyrsta máta þan̄ 16. Junii enn í seinasta máta þan̄ 23. Junii og ætíd á Sunnudag. enn sá þridi Mánudr í Sumre byriade þá og alltíd á Mánudag. Nú hefr nockud í þessu vered under vetráttinne og ásigkomulaginnu komed; þvi þad tilteckr Logmálid, ad bændur mege þessum tíma briála ef þeim þyker ollum annad hentara. Enn þad má þó af þessu ráda ad veniulegr Fráfærna tíme hiá þeim hafe vered under Jónsmessunna, og vil eg þvi tilgeta ad þeir hafe láted fe sitt fyrre bera og ad Lombin hafe vered hiá þeim 5 edr 6. vikna á Fráfærunum. Vid háttseme Utlendskra í þessum hlut er ei ad mida, þvi so sem marger af þeim líted hirda um̃ Savdamiólkina, sem er vort hálfa líf, þá láta þeir lombin under ánum gánga í 20. Vikur edr til þess

þær fá lamba aptr. Her vestanlands er alment ad færa frá um Sunnudags-helgina á mille Meßna sem menn her kalla, þad er á mille Jónsmessu og Mariumessu. Enn þó eg halde þad gott ad láta lombin gánga under ánum heldr lengr enn skemur, þá held eg þó þenn-ann tíma allhentugann. Þad er meira under þvi komed hvorsu gott Lombin eiga, heldr enn þvi, hvorsu lenge þav undergánga. Hæfelegr Steckiartime, þá ær annars fæda sæmelega, þyker mer vera 6. Vikur. Ef nockr vilde koma ser upp betra Savdkyne epter §. 5. þá skyldu þær ær ei seinna bera enn um Sumarmál, og væru þá þav lomb á Fráfærunum her um 10. Vikna og af-brygdes lomb, sem eg hefe siálfr reynt. Opt ber þad til ad lombin eru miøg misaldra á Fráfærunum, og er þá vant ad kefla þav avmustu med og gefa miólk nockurn tíma epter Fráfærurnar.

## §. 25. Um Frafærur.

Tvenna adferd hafa menn her vest-anlands til ad færa Lombum frá: ein er

er þad þá lombin eru frá ánum teken og reken á fiall og er sú rett kollud **Fraafæra**; þin adferdin má ei med rettu kallaz Fráfæra þá Lombin eru kefl-lud med ánum. Eg vil greina kost og lost á hvorutveggiu adferdinne, og lofa ødrum um̃ ad dæma hvor betre se. Avngva veit eg adra køste ad telia **Keflingunne** til gildes, enn þad, med þvi þad eru avngvar Fráfærur, so þarf ei ad hafa omak fyrer ad færa frá. Og þarf þá ei ad sitia hiá lombunum ádr þav eru á fiall reken og ecke þegar þav koma aptr af fiallinu. Sá sem kefler med, þarf ei Fiallid ad gánga og ei ad gialda lambatollinn. Enn sannlega ætla vor íslendsku log ecke til ad menn skule kefla lomb sín med ánum, þvi þad vilde bágt vera fyrer þeim sem k sele hafa; hitt er liklegra ad þavg ætle til ad sveit-armenn aller skule þýngsle bera hvor med ødrum af fiallgavngum og fiárheimtum. Siá L. L. b. 42 og 46. Cap. Þad kolludu log vor Fiallgavngr; þvi þá nentu menn ad gánga á fótunum, so sem Niála vottar þad um̃ gódann bónda

og merkesmanninn Glúm, sem Þióstolfr drap; nú kallaz þad hiá oß fiallreidar, þvi nú láta flester hestana mest hafa fyrer, og verda ad rída þeim marga krókana fyrer hraun flóa og brattlende til ad koma þeim fyrer sig, og er þetta ósidr. Þeir sem kefla lombin med, verda ad hafa fyrer ad búa til keflin og kefla lombin. Keflid vetir úr þeim þrálátlega og veniaz þav so ei fyrr enn seint og sídar meir af miólkinne; enn bóndinn tapar miólkinne til einkis. Fiárgeymslann er tvofallt ordugre, þvi þegar lombin gánga med ánum gefa þær ecke um̃ ad halda saman, heldr fer hvor ser og verdr ad týna þær saman, serdeiles framanaf, híngad og þángad út um̃ hagann. Fe þad sem er rett vaned, hrockur strax saman og heldr heimleides þá þad heyrer hóid til smalamañsins; enn keflestamba fe gefr sig miklu sídr ad þvi. Og þad sem vest er: keflestomb, epter gamallra manna sogn, verda alldrei eins væn og fiallalomb. Ad sonnu eru menn nú farner ad þræta þessa og þikiaz eiga eins væn lomb eins og

hiner

hiner sem reka á fiall; enn einstaka dæme duga ei í þessu efne. Þad má og af líkindum ráda ad lombunum verdur nockud ad há sá erill ad rekaz med fenu kvøld og morgna úr haga og í; og spítan siálf í munninum á lambinu; hvorsu er þad annad mogulegt enn ad hun hindre lambid nockud ad bíta og iafnvel ad iórtra? og miog efaz eg um þad ad keflud lomb gete drucked vatn vid þorstanum, þvi þau missa alla brúkun túngunnar, sem þienar skepnuñe til ad bíta og drecka, enn þó mest til ad velta tuggunne í munninum under tonnunum, þetta stoasta getr madr funded á siálfum ser. Heyrt hefer eg og suma bændur segia ad fiallalomb seu miklu betre til vetrarhafnar heldr enn kefleslomb.

Vid þad ad færa lombum hreinlega frá og reka þavg á fiall er margt gott. Þav kosta mann avngva fyrerhofn á sumrin úr þvi þavg eru á fiallid komin hiá þvi sem kefleslombin. Þá tapar madr ei miólkinne; enn þá med er keflad, tapar madr margre ærnytinne. Kef-

leslavst fe heldr ser miklu betr saman og lætr betr ad hóinu og hundinum heldr eñ keslaslamba fe, og er þvi miklu óordugre fiárgeymslaun; og þad sem mest er í vared: lombin koma væn og stigg af fiallinu, þvi þav hafa betra líf og krapta. Þvi skyldu keslaslomb vera giæf fyrer þvi ad þav veniaz manninum, þá mættu fiallalomb vera en nú giæfare; þvi fuglar og dýr, sem alldrei siá mann, eru hvad giæfust. Eg veit ei heldr hvort þar er stórt gagn vid ad hafa fe giæft, þvi miklu heldr vilde eg eiga ad reka saman á málum stigt fe enn giæft og miklu hægra er ad koma stiggvu fe undan ser í snióum og kofuldum, sem einatt þarf á ad halda, heldr enn giæfu fe. Ad sídustu get eg þvi vel trúad ad fiallalomb seu betre til vetrar hafnar heldr enn keslaslomb. Þad sem helst má finna ad fiallalombum er, ad þav kosta nockru meire Fyrerhofn ádr þav eru reken og epter ad þavg eru komen af fiallinu med ad vakta þav; Fiallid þarf ad gánga og Lambatollin sumstadar ad betala. Þad kann og stundum til ad bera ad menn hafe slæmar heimtur og

sídr

síðr missa menn af keflöslombum, þvi þau eru voktuð ásamt með qvífenu allt sumarið.

### §. 26. Um kefling á lömbum.

Við Kefling á lombum er sá athuge mestr að smíða so keflin að lombin gete ei um þau soged, enda hindre lombin sem minst frá að. bíta grasið; enn misiafnt tekz þetta, og opt gengr sú vella lenge, að keflin seu ónýt og lombin siúge um þau. Hnúður skal á þeim miðium vera so að lombin siúge ecke, enn utarvið mió, so að lombin gete biteð. Þegar lombin kef-laz illa í fyrstunne, so þau læra að siúga um keflið, verða þau valla síðan so kef-luð að hrífe, og gengr þá sú vella allt sumarið. Enn keflez þau í fyrstu vel kuña þaug á hálfsmánaðar freste að veniaz so af, að þau mege gánga keflöslaus. Þeim sem ega fáar kyndur og fyrer innan 20. er vorkun þó þeir kefle lomb sín; þau er og hægt að vakta að ei siúge, sem ei eru fleire.

### §. 27. Um Frafæring.

Enn nú er það tvennslags atferð, sem menn þar við hafa. Þeir sem láta

ærnar hlavpa um̃ Steck, reka þær qvöld-
inn ádr heim í qvíar þegar búed er ad
síká edr eitthvad frá steckuum; enn á med-
an eru lombin teken úr krónne og reken
þángad sem þavg ega ad vaktaz, er þar þá
byrge til og eru þav þar innebyrgd. Síd-
an eru þav seten nockra daga þar epter
þar til af þeim er jarmurinn og þarf opt-
ast ad hepta þav fyrst í stad.

Hin onnur atferdin er sú ad láta
lombin hlavpa um̃ steck. Þavg eru þá
látin vera kyrr í krónne um̃ nóttina. Um̃
morguninn, þegar búed er ad miólka ær-
nar heima í qvíunum eru þær reknar lángt
í burt annann veg enn þar sem steckrinn
er og þar vel vaktadar af einum edr tveimr
monnum þann dag. Þegar búed er ad
reka þann veg ærnar, er lombunum slept
útúr krónne og þav láten hlaupa um̃
steckinn. Ad qvolde ádr enn ærnar eru
heim reknar, eru lombin reken af steck-
num og láten inn í hús edr byrge, og
þar á epter med þav fared eins og hin
fyrre. Þegar búed er ad miólka ærnar
er þeim lofad á steckenn og hlavpa þær
þar þá sína lyst. Þesse sídara atferd
er

er alltíd í Nordrlande og sumstadar her vestanlands, og fære betr ad hún være af øllum brúkud, þvi hún er miklu betre; þvi þegar lømbin mega hlaupa um̃ stecke, fer miklu fyrre af þem jarmriñ, so ad þegar þar epter er búed ad sitia þav 3 edr 4. daga, er allr jarmr af þeim og má þá reka þav á fiallid. Hin verdr ad sitia í viku edr hálfann mánud, og hefer eg vitad þavg á þeim tíma so hrakaz, serdeiles þegar regn og votvidre hafa genged, ad þav hafa sídan alldrei bored sitt bar.

## §. 28. Um̃ Lambabad.

Þad mun flestum undarlegt þykia ad eg rádlegg ad giora lømbunum Keitubad ádr enn þavg eru reken á fiallid, þvi þad er eingen venia þad eg tilveit, og ei hefr mer siálfum huggvæmz ad brúka þad vid mín lomb, fyrr enn nú fyrer einu áre; enn sídan eg fór iduglega at fretta bændur um̃ hmsa medferd á savdfe, hefur einn nýlega sagt mer, ad bonde nockur, sem hann hefr saña spurn af hast, hafe giort þvilíkt keitubad lom=

bum

bum sínum, og hafe þá um havstíd, þegar lombin úr re:tunum komu, mátt þeckia hans lomb úr annarra lombum, so voru þav þá væn og bragdleg. Og um vetrinn hafe þav vered frí fyrer öllum kláda og óþrifum hiá þvi sem annarra lomb. Þetta munde morgum Kotúnge vel koma; þvi eg hefe marg opt undrad mig yfer þeirre almennre klogun bænda, serdeiles þegar havstvedrátt hefr vered stird edr hafís liggr vid land, ad þeir segia ad lomb sín þrífez ecke fyrer lús og kláda, hvorsu gott og miked hey sem þeir gefe þeim. Eg hefe þvi heldr undrad mig yfer þessare margfaldre og árlegre klogun og qvortun, sem eg hefe vitad ad bændur aller þeckia medalid ollum avdfenged, án alls kostnadar og lítillar fyrerhafnar; þad er Keitubadid, sem er margreynt og ótvílugt medal. Ad sonnu gesaz þeir traslar, sem ei nenna ad hafa þad fyrer lombum sínum ad brúka þetta medal; enn hiner eru þó flester, sem þar fyrer brúka þad ecke, þegar þeir þurfa, ad þá vantar efnin; þá vantar Kierhaldid til ad safna í þvæg-

inu;

inn; þá vantar pottinn til ad heita þvælid í og þá vantar sáinn til ad bada gemlíngana í. Og hvad á þá avmínginn til ad giøra? honum er vorkun. Enn ad bada lombinn á vorin er miklu minne vorkun, þvi þad er eingen fyrerhøfn hiá þvi ad bada gemlínga á vetrardag, og um þann tíma á madr hvad hægast med þad margra hluta vegna. Og ad þav lømb sem gagnlega eru bødud á fráfærúm fáe miklu sidr í sig lús og óþrif vetrinum epter, þvi get eg miked vel trúad, þvi eg veit hvorsu hætt steckiarlombum er vid lús, og þó ecke bere á henne á feitum og vænum lombum, þá kann þar þó ad vera snertr af henne, þvi soddan óværa sýnez ad vera egenleg og nátturleg á úngvidinu. Þó menn lysid í bere sem eg hefer ádr umgeted §. 19. þá nær þad, þó vel takez, ei utan um hálsin, hrigginn og sidurnar; enn hofudid, under qverkinne og maganum og aptur á mille lærana, þángad nær lysid ecke og þar getr lúsin dulez. Eg hete þvi ásett mer ad taka upp þessa atferd vid lomb, þó eg hafe lísted

líted af slíkum óþrifum í lombum ad segia. Eigna þad sumer þvi, ad lomb hiá mer eru kafferd í siónum þá þav eru á havstin i eyar látin; enn hitt kanske og hiálpe til ad eg læt vera miked kallt á heim í húsinu. Utlendsker geta um þvilík bod og kenna hvornen þav skule tilbúaz af Birke= edr eike=oskulút, tóbaks=blodum, hænsnadrite og so frameveges; enn þad hiálpar ei ad skipa vorum bændum, og er þó tóbaksblada seydid hid ypparlegasta medal vid lúsinne. Eg vil segia mína medferd. Vel stæka keytu skal heita og hafe madr þángosku edr hrís=osku til ad sióda þar nidri, þá er þad þeß betra. Rusl þad sem ofaná setz skal í burtu fleyta, enn steypa þvælinu í fullstórt ker og láta ei vera heitara enn nýmiólkur volgt. Sídan tekr einn lambid og setr þad á hrigginn ofaní kerid og heldr hofdinu uppmed barminum; enn annar þvær lambed allt med hondunum og med lúku sinne eys þvælinu upp under kverkina og sem náqvæmast verdur um hofudid, enn varaz þó ad láta þvælid fara í nasirnar, augun edr eyrun. Þegar

lambid

lambid er fullþvælt, tekur sá sem því heldr þad uppúr, enn hinn leggr fiøl á barmana á sáinum og þar á er lambid lagt og ſtroked þvælid úr lagðinum á því edr kreyst úr, ef þad eru gemlíngar, og þanveg er hvørt tekid af ødru þar til øll eru buenn. Til þeſſa ſkal velia blídann og heitan sólſkins dag, enn þó eg fáe ei ſo blídann dag um fráſærurnar, vil eg þó lømbunum badid giøra, því þad ſer eckert á þeim þó þau snøggvaſt vøkne, og þó er þad ein hofudregla **ad øll ſe ſe fordus øll haſtarleg umbreiting.** Ad láta nú lyie ofan þau ádr þau eru reken, þegar þaug eru orden vel þurr, munde allvel fara, ef ullin kynne þar vid ad verda betre á þeim. Med þeſſare adferd og underbúninge held eg ad lømb vetrinum epter, í rúmgódum og velſkøldum fiárhúſum, munde verda frí fyrer allre lús og óþrifum, ef eingen óþrifa lúſalømb kiæme ſaman vid þau.

## §. 29. Um Lambarekſtr.

Løgbók vor ſeger Landsl. b. 46. **C. ad reka ſkule fe í midian af-**

D rett;

rett; og er þad navdsyn ad reka so lomb, ad þav fyrst í stad kome ei saman vid búfe, sem gengr nærre afrettarlondum. Reynt hefer eg þad, ad þegar lombin eru vel under fiallid búen og sídan laglega reken í góda haga, má miked til gánga þar ad þeim vísum aptr sem vid þav er skiled, ef þav mæta avngre serlegre stiggd. Þeir sem afrettinn eiga, eru skyllder ad láta þann hreynsa af Melrockum med þvi ad leita uppe grenin og láta þav vinna; ánars þyker ei skyllt ad gialda lambatollinn. Vída vantar bændur slíka afrette og eru þá lomb og annad geldfe reked á fiollinn mille bygda og skyldu þavg eins og afretterner frá refum hreinsaz.

## §. 30. Um Fiallgavngur.

Sídan búed er ad reka lombin væn og vel underbúinn á fiallid, er helmínge ollum afloked af því, sem þarf til þeß ad koma ser upp vænu og bragdlegu fe. A fiallinu eru lombin ómakslavs þar til á havstin epter þeim er genged. Nær þad skule ske, er eckert víst í Logunum tilteked, heldr seger R. B. K. K. í. L. L. b.

46. C. „Ad þad skule vera epter þvi, „ sem Hreppstiórnarmenn giora rád fyrer „ og hvoriu byggdarlage hæfer.“ Um Fiallgaungurnar, sem nú er orden ad Fiallreidum, sídan omennskan magnadez, vil eg eckert tala ne um Rettarnar. Einasta vilde eg ad sá illr vane tækez nú ei upp aptr, sem var alltídr ádr enn Faraldrid kom, ad sumer fluttu Tobak og þó mest brennevín í Rettarnar og seldu þar. Bændur seldu þá lomb og savde sína og tóku í stadin þad sem þeir glævtuz á, hvar af orsokuduz einatt áflog og skammaryrde og var þad illt þacklæte vid gódann Gud, sem þá hafde blessad bændum savdfe sitt um sumarid. Þad er og meira vandaverk ad vera vel i Rettum, hvar savder eru einatt sora merkter edr marked ógløggt enn so, ad mønnum hente ad missa þar vit og sión. Fiallgavngr epter lømbum skyldu þó vera í seinasta lage, þvi lømbum er miøg hætt vid ad hrakaz frá þvi þav koma af fiallinu og til þeß fared er ad hýsa þav. Enn þad var alment ad sleppa lømbum aptr og hafa þó nockra eptersión um þav; þvi medan í blóma var hiá oß,

voru fiøllin gengen tvisar og þrisvar og var þvi ei hætt vid ad lømb og savder kiæmez aptr lángt á fiallid.

## § 31. Um̃ Lømb at havstin.

Vitad hefer eg þad ad lømb, þá þav hafa af fiallinu komed, hafa vered voktud serklage, og er þad allgott fyrst í stad; enn ei vílde eg þó hýsa þav á nóttunne, þvi þeim er nógur tíminn ad draga í sig húsdáminn. Best er ad venia þeße lomb sem fyrst saman vid fed og láta þav; þvi fylgia allt þar til fared er ad gefa þeim hey, Og enn þó Lomb breite ei nafne sinu fram̃epter vetrinum, þvi þavg eru ei kollud almennelega **Gemlingar** fyrr enn á vetrinn lídr og kemur fram̃ á vor; enn med þvi nú byriar øll onnur medferd á þeim, vil eg þar um̃ i ødru lage tala.

# II. Cap.

## Um̃ Fiarhwsin.

### §. 1. Um̃ Fiaar ytelegur.

Pad hefer eg lesed ad i Spania, hvar ad er þad vænsta og ullarbesta Savdfe í

Nordurálfunne, þar se þad þó tvenns slags; annad sem er ullarslæmt og er þad se þar hýst á hverre nóttu og so er þad brúkad í Englande, sem næst gengr Spania ad ullargiædum, og ecke er medferd á fenu ødruvís í ødrum Nordrálfunnar løndum, þad eg hafe heyrt edr umlesed, fyrr enn kemr híngad í Norveg, hvar saudfe í eyium gengr úte allann vetrinn. J Færeyium gengr þad líka alltaf úte og so her hiá oß avstan og sunnanlands ad nockruleite og her vestanlands i eyium. Þessum saudfiárins útegánge á vetrardag hrósar Hr. Hastfer næsta miog. Þad ullargóda Saudfe í Spania kemr alldrei inní hús, og gengr helmínginn af árinu uppe á fiøllum, enn annann helmínginn gengr þad í byggd og nidre á láglendinu, og þad ætla sumer ad þetta tvent, nefnel. sífelldar utelegr og tilbreitíng á hogunum og serdeiles fiallhagarner, hiálpe mikid til Ullargiædanna. Oskande være, ad sosem ver getum hæglega breitt epter Sponskum í þvi ad breita til vid fe vort um hagana og ad halda þvi til fialls

og heida á sumardag, ad eins giætum ver breitt epter þeim í þvi ad láta þad alldrei inní hús koma. Af reynslunne þikez eg vera yfirbevíſadr um þad, ad þvilíkt fe hafe miklu betre og meire ull; *) þvi so er þad fe, sem her gengr í eyium og aldrei inní hús kemr; og alldrei hefer eg vitad húsfe á lande, hvorsu vel sem aled hefr vered, jafnaz til vid eyiafe í þessu. Og yrde útegangufe samt gefed, so þad alldrei inní hús kiæme, munde þad i øllu taka fram Húsfe. Enn med þvi vort landslag sýnez ei þetta leyfa, þá verdum ver húsin ad brúka, og med þvi lømbin, þegar vetrar ad, þurfa þeß nú med, vil eg þar um tala og þó fyrst um borger og byrge, þar þad er so náskillt hvad ødru.

## §. 2. Um Fiærborger.

Fiárborger eru mer sagdar miøg brúkanlegar á avstrlandinu og er mer um þær ókunnugt, heyre eg ad þad se serleg adferd og vande ad byggia þær rett,

*) Almennt segez ad Ull vare minst á fe i þerrer sumrum.

rett, þvi þær ega ad símiócka epterþvi sem uppepter þeim kemur, og med þvi skútinn verdr þá alltíd meire og meire þeß hærra sem kemur, so ad allt munde innfalla ef sú kringlótta hledsla ei helde ser siálfre, so má þetta fullkomenn vande vera, enda hefer eg heyrt ad þad sen ei utan visser menn, sem þessa konst kunne.*) Enn af þvi sem sagt er í næstfyrerfarande §. um útelegu fiár, munu þessar fiárborger gódar vera, þá þær eru rúmgódar og rettbyggdar, þvi fe er ei inní þær láted utan í vidlegum. og er þad ad nockru leite þá eins og fe ligge úte í bóle sinu.

## §. 3. Um Fiárbyrge.

Tilforna voru Fiárbyrge brúkud vída og siáz leyfar epter þad enn nú í einstaka stodum. Þesse Byrge brúkudu fornmenn til ad nýta ser þeß betr vetrarbeitina, þvi vída er so landslage háttad, serdeiles á þeim jordum sem ega

D 4 fiall-

*) Um þesser Fiárborger talar Hr. E. Olafsson í sinne ISLANDS-REISU §. 816 pag. 836.

fialland, ad viß partr landsins verz lenge og slær þar úr, þó annad af landsinu legge under. Þad er og optar ad beit til fiallsins, medan henne nær, er betre heldr enn heima um̄; enda er þá og beiten óbrúkud þá heim kemur. Þesse byrge brúkudu þeir mest framan af vetrum, þar til kom fram̄ yfer Jól og iafnvel fram̄ á mánude, og þar til þeir fóru ad gefa se sínu. Enn nú er þesse mannskapr eins og annar aflagdr. Ef nockr vilde nú slíkann manndóm uppaptr taka, hann veli til þeß háann griótlhól, þar sem sniór stendr ei vid, og þar skal hann hlada þetta Byrge krínglórt. Bágt er þad ad kenna almúga skilianlega, sem eckert kann í reikníngs list, ad byggia slíkt byrge mátulega stórt epter fiárfiölda hans. Þó getr hann ætlad hvorium sínum sauð 2. álner og í huganum leggia þad saman i eitt og skipa þvi nidr í ferkantadann flock, so ad jafnt se í hvorre rod og jafnt á allar sidur. Þetta getr hann med margt slag giort og líka med þvi, ad rada nidr Þoskhöfda qvornum edr og litlum steinmol-

moldūm og láta hvørn ſteinmolann merk-
ia 2 álner og þá hann telur i einhvorre
ſídunne, ſer hann hvad ſoddan eitt ferſ-
kantad hús være á hvørn veg, og eins
ſtórt ferkantad pláts mæler hann á griót-
hólnum. Sídan ſtíngur hann nidr hæl
í midiunne og hnýter um ſnære, ſem
nær utt horned á ferhirníngnum, geng-
ur hann ſo med ſnærid í kríngum hælinn
og markar hrínginn epter þvi ſem ſnær-
id tilvíſar og verdur þá byrged nægelega
ſtórt handa fenu til ad liggia i. Af
grióte ſkal byrged hlada ad innanverdu í
midtlær, enn torf má brúka ad utanverdu
og er þó betra af grióte, þvi ſe nýr ſig
opt vid þar ſem þad finnur hentugleika
þar til, og ſer þá mold og ſandr í ullina
ef af torfe er hledſlan utan. Þá hledſ-
lan er komen í midtlær ad utanverdu,
er mer ſagt ad á þeim gomlu Byrgiunr
hafe vered ávalr býngr, ſem ſkagad hafe
út allt í kríng, enn ſídan hafe byrged
vered uppdreged. Þeſſe býngr edr búnga
á byrgiunum er ómiſſande, þvi þegar kaſ-
alded ſnakar í kríngum byrgid, þá hvirf-
lar býngrinn þvi frá ſer og ſlær þvi þá

útfrá byrginu, so ei fÿkr ofani, og þó vilde eg hafa efst á byrginu kraga af hnavs, sem stæde allavega utaf, og ynne hann sama gagn og Bÿngrinn og munde alldrei inni slíkt byrge fenna. Byrgid skylde vera í þad minsta mannhæd og dyrnar í þá átt, sem síst stæde uppá. Dyrnar skyldu vera lágar med hurd fyrer. Þeß vil eg her um hurdina geta á øllum þvílíkum byrgium og hagahúsum og eins selhúsum, þá ei er í þeim vered, ad hún se fráteken, þvi eg hefe vitad skepnur svelta til davds med þvi móte, ad þær hafa innfared af forvitne edr í óvedre og hurdin, sídan aptrdotted, so ei hafa utkomez. Þeßháttar vott þikiaz menn siá í þessum byrgium, sosem smalamadrinn hafe haft þar sitt adsetr og hægt er so um ad búa í byrginu ad hann hafe þar fullgott, enda má so opt ástanda ad þetta se harla navdsynlegt, þvi opt kan þad til ad vilia ad hann ei heimkomez. Byrgid á ad vera flórad, so þvi verde hreinu halded, því **under þvi er komed fiarins hælfa lif ad þad verde ei ohreint.***) §. 4.

*) Eg þecke varla nockra þá Jørd, sem ei þurfe þessa Byrges med, ef vel skylde fara; þvi

þó

## §. 4. Um̃ beitarhws.

Beitarhús eru vída brúkud nordanlands vid sióarsídunna: eg læt þad ósagt hvort þaug eru betre enn Byrgin; þvi í byrgiunum hefur fed þann jafna kulda, sem fenu er so hollr; enn í beitarhúsum kann miog af þvi bera, nema þar vid se brúkud hin mesta nærsærne og athugaseme. Med þvi Beitarhús eru brúkud ferhyrnd, er hægt ad skapa þeirra stærd epter fiárfioldanum, og ætla eg 2 álna rúm næge savdnum. Þar sem avngvar eru iotur og hann þarf einasta ad liggia í; enn med þvi fe kann opt ad koma

þó Fiárhús seu þar alldrei so vænz og gód, er þad ofmikell og skadlegr erell fyrer Fed ad reka þad heim og heimann qvøld og morgna, medan þvi þarf ecke ad gefa; þvi stundum kann fe ad þurfa hús þó þad þurfe ei hey, og stundum verdr ad hýsa þad vegna biters. Allteins er þetta byrge ómissande i byggdum eyum, hvar þó fe se ei hey gefed, þyrfte þad þó navdsynlega ad hýsaz fyrer siónum og helde eg þá byrgid miklu betra enn húsid; þvi þad er þeß betra sem fed vennz minna vid hitann, og sídr munde eyia bændur missa fe sitt í siónum ef þeir brúkudu þeße byrge.

koma bryniad inn er betra ad ætla frek-lega til og iafnvel 3. alner fyrer savdiñ; enda er aldrei ofrumt í fiárhúsum. Seu 2. alner ætladar savdnum þá tekr 10 álna lángt og 6. ál. breidt hús 30. fiár; enn ef 3. álner eru ætladar, þá tekr sama hús ei meira enn 20. savda. Beitarhúsid skylde flórad vera eins og byrgid, so þvi verde alltíd hreinu halded. Enn nú kañ þad til ad bera ad illt se ad fá hellr, og má þá hiálpaz vid adra adferd. Þeger smalamadr ætlar ad láta fed út, skal hañ byrgia fyrst alla glugga á húsinu og sídann láta fed strax út; og so þá hann hefr útláted, skal hann strax moka húsid og byrgia þad sídan aptr. Þá á eyktarfreste er húsid búed ad þurka sig so upp ad øll væta er horfen; *) Sídan skulu gluggarner opnaz og húsid setiaz oped, so ad allann il og gufu útlegge; þvi ad í beitarhúsum er alldrei ofkallt, hvar uñ skømu

*) Þessare medferd vandez eg þar sem eg ólz upp nordanlands, var þar þá fiøruse sem ætid vætee hús sín meira enn annad se, og vard þó senu hreinu og bragdlegu halded med þessu móte.

skomu sídar skal meira tala.

## §. 5. Um̃ hey vid byrge og beitarhws.

Nú kynne þad opt til ad bera, sem menn mega einatt reyna, ad stór kofold og fanner kunna hastarlega uppá ad koma, so ad fe yrde ei heim ad komed og mætte so standa málþola i nockur dægur og er þad harla illt: være þá gott ad hafa þar hey vid, til ad taka hungr úr fenu med. Heyrt hefe eg ad se sumstadar so brúkad, ad avngvar seu jotur í húsum þar sem sialdan þarf ad gefa, enn í vidlogum er fenu gefed under húsveggiunum. Margt má nú ad sounu finna ad þessare adferd; enn þó þiker mer hún nýtande vid Byrge og beitarhús, þar bændur eru alment í mesta vidarhrake og fá hann ei til ad halda uppe Bæarhúsum og navdsynlegum úthýsum. Heytóptin skylde þá vera so lángt frá beitarhúsinu so sem fed er margt, ef þad stæde samsída hvor savdr útaf odrum. Amille toptarinnar og húsins edr byrgisins skal vegg hlada og under þeim

sama

sama vegg gefa fenu í uppáfallande navdsynium.

## §. 6. Um̃ Fiárhws.

Um̃ stærd á Fiárhúsum finna meñ gamlar reglur í Búalogum, enn þær eru mjog óviſſar og er þar víſt ſlengi ſaman beitarhúſum og giafarhúſum; enda verdr eingen regla ſmídud af efnaleyſe bænda, þvi þá hefr alltíd vidin vantad og vildu þó aldrei hafa fleire roſkna ſavde á fadme enn 5, þegar þeir hofdu ráд til þeß ad hafa hús ſin ſo rúmgód. Nú þarf ei lengr ad villaz um̃ þad, hvad stór Fiárhúſin vera ſkule; þvi Háyfervoldin hafa láted ſkíra ſkipun þar um̃ útgánga í Alþíngesb. 1776. Nr. 21. þar ſeger „ad 20 ſavdahús „ ſkule vera 10. ál. lángt og 6. ál. „ breidt, og 40 ſavdahús 20 ál. lángt „ og 6. ál. breidt; verdr þá ſavdr á „ alin ſinn hvoriu megen á iotunum. „ Veggirner ſkulu vera 2½ edr 3. ál„ ner á hæd, og ſkulu þetta vera Dan„ ſkar álner. 1. Rdls. ſekt er vidlogd „ hvorium þeim ſem minne hús bygg„ er

„ er." Oskande være ad Bændur hefdu epter þvi efne til ad byggia Fiár-húsin so stór, sem her seger, sosem þesse skipun er miked góð og navdsynleg. Enn hvad á Bónda skepnan til ad giora? Gud gefr honum kyndurnar, Gud gefr honum heyid, enn vidinn fær hann med avngvu móte keyptann, og þó keyptan fenge lángt í burt, hefr hann ei krapta til ad koma honum ad ser. Hann hefr eingen ønnur ráð enn drepa saudkyndurnar í ótíma sem Gud hefur gefed honum til lífs og lífsbiargar. I þessum vandrædum tæke eg þad til bragds, ad eg hlæde mer Byrge eins og ádr er umgeted §. 3. og hefde þar inni þad af fenu sem epter ádrsøgdu ecke kiæmez í fiárhúsin. Þegar gefa þyrfte, lete eg fed úr húsunum, þegar þad være búed ad eta giøf sína, ut, og giæfe so aptr á jøturnar og ræke inn þad sem være í byrginum til ad eta, enn hitt aptr inni byrgin og skipte so umm, so ad allt giæte eted, og vil eg vediaz umm, ad byrgesfed med þessare medferd skylde allt eins vel vidhaldaz eins og húsfed. Ad

vissu

vísu være þetta torveldt og ómögulegt fyrer einn mann; þó være það bágast fyrst í stað og alt være heldr til bragðs takande heldr enn að drepa kyndurnar ser til skaða eðr fella á sig sekter.

## §. 7. Um sama.

Um Fiárhúsa bygǵngar get eg avíngvar serlegar reglur gefeð, sem bændur vita ei almennelega, enn þó mistekz þeim það; því seð hefer eg að griótlhleðslann er opt oflág innaní veggiunum, so þegar mikeð tað hefr vereð komeð í húsið, hefr savðrinn náð uppfyrer griótlhleðsluna og hefr þá núeð ser við moldar vegginn, og optast þurfa bændur út úr húsum sínum að stýnga þegar kemr fram á mánuðe, enn það skylde þó ei ske fyrr enn á vorin þá te fer að liggia úte. Aptr hefer eg það seð, að so mikeð torf hefr vereð brúkað í griótlhleðslunne að á fáum árum hefr það vereð allt úrmolnað, og hafa þá steinarner viliað detta inn í húsið, og hefr húsið með því móte orðeð endíngarslæmt. Þessa somu athugaseme þarf að brúka við bálkinn, oll hleðslan utan

skylde

skylde vera af einsomu laggódū grióte og bálkrinn vel hár, þvi hann á fyrer ser ad læka epter þvi sem tadid vex. Þad er skade ad hafa jøturnar mióar, þvi þeß-heldr slæder sed heyinu. Þær eru hiálp-lega breidar ef þær eru 5 Dønsk qvartel á mille jøtustocka. Jøtubøndin skulu vera lángspannar hátt upp yfer jøtustockunum, so ad sauðrinn gete smockad ad eins inn hofdinu, seu þav hærre hleypr hann med tugguna og slæder heldr heyinu. Enn þvi tók eg fram um þad ad hafa háann bálkinn, þvi hann á ecke einasta fyrer ser ad læcka þegar taded vex; heldr og hins vegna, ad komez se einusinne á þad ad stockva á jøturnar, vill þad þeim óvana halda og er þá miklu bágara vid ad giøra. Veggirner ad utanverdu eru allstadar hladner af klumbuhnavs edr qvía-hnavs og kannskee nockru grióte nedst. Enn nú hefer eg ásett mer ad hlada þá alla af snide og snúa grasrótinne út og binda so med snide innaní, vona eg ad þeir vegger verde endíngar betre og grase vaxner, sem má nýta.*) Veggirner ega



*) Þetta innfall ad hlada veggina af snide og snúa grasrótine út hefer eg fenged af þvi

ad vera ad utanverdu so uppdregner, ad þegar búed er ad þekia húsid, ad þá verde samfara ytre brúnin á vegginúm og þekian, so ad eckert verde þrepid, og se veggrinn þá 2 ál. hár utan enn innan 2½ ál. Þá stockur fedl ei á þad hús, þvi þad getr ei fótad sig þar sem eckert er þrepid. Hornin á ollum veggium skyldu krínglótt vera, þvi þavg eru miklu varanlegre. Varla er nockurt hús, sem meira vardar um̃ vandad þak á, heldr enn Fiárhús; þvi leke á fed, koma í þad allskyns óþrif; húsid verdr blavtt og fed óhreint, og er þvi miklu betra í hrakvidrum úte ad liggia, heldr enn inní lekahúsum. Ad vísu er miked undir þvi komed um lekann, hvornen ristan er; enn þó skyldu menn ristuna vanda meira enn optast skedr, þvi vegna þeß ad best bítr á þar sem raklendt er, þá

sem eg hefe giort tilravn á nockru stické í kálgarde mínum, og þvi sem sú konunglega Forordníng um̃ túngarda býdr ad snúa grasrótinne út, þvi þad fer miklu betr, og sagt hefr viß madr mer, sem hefr hladed vegge af snide ad þad se ei seinna heldr enn ad hlada af hnavs; enn þá verdr snidid ad skeraz úr rækar jørd, annars skrælnar þad upp.

þá er þar helst rist, enn það er þó optz
astnær mosaþemba og þá tyrft er með þessz
are mosaþembu, hleypr vatnið í hana strax
þá regn kemr, og því hefe eg vitað
grundar þak miklubetr halda regne; og
ef menn forduðuz þessar mosaþembur og
riste heldr þar sem hardlendara er og tyrfz
de vandlega með slíku torfe, munde það
miklu síðr leka, Víst er stutt í þessu torfe,
enn það verdr að hafa það þeß síðttra og
þó menn yrðu að flytia það í torfkrókum,
er tilvinnande.

§. 8. Um kulldann a fenu.

Eg hefe sagt í Cap. 1. §. 29. að
það være ein hofuð regla að fordaz a
fe alla hastarlega Umbreiting, og
eingen umbreiting er savdfenu skadlegre
heldr enn hastarleg umbreiting á hita og
kulda, og þessa umbreiting telr Hr. Hastz
fer hina helstu orsok til þeß að fe vort
er so ullarslæmt, jafnvel að það se og
satt, að hvað getr ser Ykt, og að til
þeß að uppkoma eins ullargóðu fe og
því sem utanlands er, þurfe útlendska
hrúta. Nú er það vitanlegt að fyrst hastz

arleg um̃breitíng á hita og kulda er fenu ſo óholl, þá er ſlík um̃breitíng þvi ſkad-legre ſem hún kemr optar ad. Er þá gott ad ſkilia, ad þá ſed verdr ad þola þeſſa um̃breitíng á hvorium dege, vera inne í heitum húſum á nóttunne, enn ute í horkum á daginn, kann þad ei gódre lucku ad ſiþra. Ad ſonnu kenna útlendſker voru kalda lopte um̃ þad ad fe vort ſe ſo ullarſlæmt: þeir ſkrifa ad þeß kaldara og gródaminna ſem eitt land er, þeß ſtirdare og ómiúkare ſe fiárins ull, og þeß varm-are og frióſamare ſem londin eru, þeß bet-re ullin. Ad góder hagar og gott fódur hiálpe til ullargiædanna þvi trúe eg; enn ad hite edr kulde, hvor fyrer ſig og ei í ſamblande, giore miked ad verkum, þvi trúe eg ſídr. Og ecke ſannaz þetta á ſaudfenu vid Gullſtrondina í Afrika, ſem liggr ſudr vid ſiálfa midjardarlín-una, hvar þad hefr hár í ſtadin fyrer ull. Ecke ſannaz þetta á voru eyiafe edr útegavngufe á lande, ſem aldrei in̄í hús kemr og er þó bæde ullarmeira og ullarbetra enn þad fe ſem hýſt er, §.

I.

I*) Eg minnez og ad eg heyrde Hr.

E 3 Hast=

*) A Rangarvøllum fyrer avstan hefr sed mykre og hvítare ull enn annarstadar: þar liggr þad í hellrum og fiárbyrgium, hvar þad þrífst betr; enn Ullargiædin eru helst kend þeim smáa sande, sem Hekla spýr, í hvorium sed liggr. Siá Hr. E. Olafssonar ISLANDS-REISU §. 894. pag. 978. Her kemr mer í hug þad sem Hr Aphelen seger frá þvi spanska Savdse í sinne NATTURU-HISTORIU 2. Parte pag. 270. „ þad er hald= „ ed, seger hann, i rettre ravn navdsynlegt „ vid fiárræktina, ad maka savdsed í Sept= „ embri frá høfde til hala med einsslags „ Ocher edr Járntegundar Jørd, sem er „ hrærd sundr í Vatne. Menn segia ad „ þegar þesse íburdr blandaz med savdsituñe, „ þá se þad til skióls fyrer regne og kulda. „ Adrer halda ad þesse íburdr verke eins og „ þurkande iørd, sem drage í sig suddann „ útúr savdnum, sem annars vilde giøra „ ullina stirda og ómiúka." Þegar meñ bera þetta saman vid Heklusandin á Rángárvøll= um og áminsta iárniørd í Span. má þad or= saka epterþánka, og være óskande ad þeir sem gott vit á nátturunnar verkunum hafa, vilde frekar epter þessu grenslaz, og ef þetta synd=

Haſtſer ſegia, ad vort hreina kalda lopt þvi ſidr ſkemde ullina ad þad heldr batade hana. Þegar ogſo er rett athugad þad ſem ádr §. 1. er ſráſagt um þad Spanſka ſe, ad þad ſem alldrei kemr í hús, er ullarbetra enn þad ſem hýſt er, má geta ſer til orſøkina: J Spania og ødrum þeim ſunnarlegu londum er óþolande bruna hite á daginn; enn á nóttunne er þar kalldara enn hiá oß, og ſá kulde þar fyrer utan miklu ónátturlegre. Nú get eg til ad Spaner hýſe ſe ſitt í ſtórum, háum og rúmmiklum húſum med vindavgum; og mun þar þá heldr kallt enn heitt inne vera. Nú láta þeir ei ſed út fyrr enn øll náttdøgg er þornud af graſinu, og er þá komen bruna ſólſkins hite, og má þvi umbreiting hita og kullda þar á ſenn hafa ſína fullu verkan, og þad ſe, ſem þeſſare umbreiting ìdugslega mœter vera ullarlakara. Hitt þad ullargóda ſe þar, ſem alldrei kemr í hús, ſyn-

ez ad ver'a vel grundvallad, ad hyggia ad hvort her í lande er ei þvilik lardartegund, ſem her til kynne ad vera þienanleg. Kannſke einhver vilde reyna Peturðmoldina!

synez minna underkastad þessare um̄breit-íng hita og kulda, þvi ad á sumrinn frá þvi um̄ sumarmál og til þeß um̄ Mikelsmessu gengr þetta fe á fiöllum, hvar lopted er hreinara og svalara og þvi minne um̄breitíng hita og kulda; enn á veturnar er þvi halded á láglendinu og nidr í Dolunum, hvar þá er á þeim tíma minne um̄breitíng.*) Adrer egna þesse ullargiæde vissum urtategundum sem vaxa á fialllendinu, enn ei so nidr í Dolunum edr á láglendinu, og vera má þad ad þær

 hiálpe

*) Þad sem eg hefe her sagt um̄ þad spanska fe er teked mest af Hr. **Aphelens** Nátturu-Historiu, þar hann talar um Savdfe í þeim 2. Parte pag. 268 seqq. og af Siónarplátse Konsta og Handverka 5 Bind pag. 132 seq. Þar se eg ad Hr. **Rousseau** hefr egnad ullargiædin fiallendinu, og Dr. **Schreber** vißum urtategundum og er þad merkelegt sem hann tilfærer epter þeim engelska Hr. **Lisle**, ad ullen á þvi engelska fe se orden verre sídan þad hafe fenged þær feitu grasategunder. Enn þad eru vißar fiallgrasa tegunder, sem þó sýnaz annarz margar, sem savdfenu eru miklu hollare.

hiálpe her miked til; þad er ei heldr mín meiníng ad egna egenlega froste og kulda ullargiædin; heldr ætla eg ad hvørsu góder sem hagarner eru og hvørsu nóg og gott, sem fódrid er, mune þó þad se alldrei til lengdar hallda giædum sínum, sem iduglega hlýtr ad þola mikla og flióta umbreitíng af hita og kulda. Ei er þad nú so ad skilia, sem þesse hastarlega umbreitíng hafe sína fyrstu verkun á siálfre ullinne, so ad ullarhárin verde þarfyrer stirdare og ómiúkare, og má þó kañske nockud í þvi vera; heldr verkar hun helst í vessum skepnuñar, hvar af ullin skapaz. Þetta hefr Hr. Hastfer miked greinelega í stuttu mále sýnt í sínu Skrife pag. 42. og þeir sem ei geta þessu trúad, þeir skyldu þó læra ad skilia þetta á siálfum ser og sinne egen reynslu. Þá er manne hættast vid ad kala, þá hann fer fliótlega úti miked frost úr miklum hita, og þeim monnum sem kala, verdr helst meint vid ef þeir frosnu limer eru hastarlega vermder; enn seu þeir látner uppþidna í snió edr køldu vatne, þá verdr manne miklu sídr meint vid. Enn Hr. Hastfer seger

seger ad savdse se miøg hørundsárt og ad þad finne hvad náqvæmlegast til allra vedrabrigda.

## §. 9. Um gluggana a fiærhwsun-um.

Eg hefe nockud lángordr vered um̄ þær skadlegu verkaner, sem hastarleg Um̄breiting hita og kulda hefur; þvi í fáu held eg bændum vorum meira yfer-siáez, og í fáum hlutum ætla eg ad bænd-ur vorer þecke midur yfersión sína; eñ eingen yfersión ætla eg ad se skadsamare savdse voru og þó avngva hægra ad bæta. Og skylde annadhvort vera, vilde eg heldr ad mer sæez þad yfer ad hafa of-þravngt í fiárhúse mínu, enn ad hafa þar ofheitt; enn hvorutveggia er vant ad fylgiaz ad; þvi þar sem ofþravngt er, þar verdr valla láted vera nógu kallt. Þad er almennt ad þá menn koma iñ í húsin á morgnana til fiárins, þá er þar bad hite, og hvorsu hlytr þá ei skepnuñe vid ad bregda þá hún er láten út úr þessum bad hita uti kullda og hørkur; Ecke einasta stífl az þá vessarner í holdinu

og verda þickver og ſeiger, hvar af ullin ſkemmez, heldr og kemr krympíngr í ſed og þar á epter óþrif og veſöld, ſo þad hefr ei helmíngs not af heyinu, ſem uppá þad er koſtad. Reynſlan hefr og kennt þad, ad útegángs ſe í bærelegu haggviſte gengr eins vel edr betr enn húsſe, ſem gengr í ſama haggviſtí og er þó gefed. Edr hvar af mun þad koma ſem bændr ſegia alment, ad qvíkſe í bærelegre vedrátt bate ſig fram á Jólafoſtu ef þad ſe ei hýſt, enn úr þvi þad ſe hýſt bate þad ſig ei lengr? Hvor kann her ad vera önnur orſök til enn haſtarleg umbreitíng hita og kulda, ſem fylgir med hýſíngunne? Þad er gömul bænda regla ad í húſum gaddheſta ege ei ad vera heitara enn ſo, ad þidne undan hófnum. Um ſaudſe ſegia bændur ad ſö lenge ſe gott ad láta þad liggia úte, ſem þad þíde úr bóle ſínu. Þeſſare reglu verdr ei jo egenlega fylgt um fiárhús, ſem ega ad vera þurr og hrein; enn þar af má þó ſiá ad í þeim á eingen hite ad vera. Eg voga þvi ad ſegia ad i velgiördum og velþeittum fiárhúſum

húsum skipudum so sem ádr er sagt ad 20, savder seu i 10 ál. lavngu og 6. ál. breidu húse, verdr alldrei ofkallt haft, allrasist framan af vetrum medan ei er búed ad gefa úr tóptunum; þá þegar búed er ad gefa miked úr þeim, verdr miklu kaldara. Giætu menn haft vindavgu á hlidunum, kynne þetta heldr ad takaz, enn þad er óhægt vegna þeß ad innum þav vill fiúka. Kuldann í fiárhúsunum verda menn ad giora med gluggunum og veiter eckert af þó þar se giordr glugge fyrer hvoria 5. savde sem í húsinu eru. Adr umgeten háyfs-ervaldanna skipun seger ad á húsunum skule vera 1 edr 2 gluggar, og þar fyrer utan líted vindavga efst á hurdinne og annad efst á gaflinum, enn ei banna yfervoldin þarfyrer ad hafa gluggana fleire, og ei hefr mer þótt nógu kallt þó eg hafe haft 5. glugga á 30 savda húsinu. Vilde nockr nýta þad af þessu skrife ad hafa nógu kallt í fiárhúsum sínum, þættez eg hafa vered þarfr madr. Glugarner skulu gioraz kringlótter á mæn-inum og víder innan, sídan skal skeraz upp

upp kringlóttr torfuhnaus med kringlóttu gate á og setiaz ofanyfer gluggan og hælaz þar nidr med trehælum, og þá fýkr ei snn um þá glugga, og þeir draga ílka út suddann og gufuna. Giætu menn haft vindaugu á veggiunum og være þad miked gott; enn med þvi þaug verdr ad byrgia í kofuldum, hvar af vilde verda miklu heitara í húsunum stundum enn stundum, vil eg ei til þeß ráda. Ad sonnu mætte med trestrompum búa so um þesse vindaugu ad ei inn fyke; enn allt hvad vidin kostar, hiálpar ei ad fást um vid bændur, sem valla geta komed ser upp heymeis fyrer vidar eklu.

## III. Cap.

### Um Foodrid.

### §. 1. Um utelegu Lambanna.

A haustin og framanaf vetrinum, serdeiles þegar vedráttin er hrein og þur, er best ad láta lombin liggia úte hiá fenu. Þetta er nú miked komed under nærfærne bænda; þvi lomb þau sem eru nockurn-

degenn snemborenn og hafa átt gott vid steckinn, geta í gódum vetrum leged úte hiá fenu fram á Jólaföstu edr lengr; enn lakare lömb verdr miklu fyrre ad adtaka. Þó verdr ad varaz þad ad lömbin legge af, þvi þeß bágara er ad halda þeim vid sídan, og kosta þá mikłu meire giöf heldr enn ef þav være med sumarholdum adteken, og er þá hætt vid ad komez í þav óþrif. Þad er alltof almenn yfersión vid allann penĩng her hiá oß, og eins vid kýr, ad meñ þikiaz spara vid þad ad láta penínginn hafa sem mest ofanaf fyrer ser framan af; enn margföld reynsla hefr sýnt þad, ad þad hey, sem med þeßu móte er sparad, hrockur sídan ecke til ad koma penĩngnum aptr í lag. Og þvi vil eg med þvi fororde ráda til ad láta lömb liggia úte framan af vetrinum: **at medan þav leggia ei af.**

## §. 2. Uñ lamba hey.

Adr enn eg tala uñ hýsíng og vetrar medferd á lömbum, vil eg líted geta um hey handa þeim. Almennelega

vanda

vanda bændur miøg lambahey sitt, og velia helst til þeß þurlendar puntgreses slægur, sinulausar. Hvilíkar engiar gefa optast lágt og gott gras, enda vilia bændur aldrei stórt hey handa lømbum. Þad hey sem þeir lømbum ætla, slá þeir fyrst af utheye sínu og strax sem þeir koma úr túne. Þurk á þvi vanda þeir, og so í besta máta, so þad ei orne og enn sídr mygle. Allt þetta eru míked góðar reglur. Þó er þad ei heldr gott ad skrælþurka lambahey heldr enn annad hey, þvi bæde er ad úrhey þoler ei miken þurk, enda er þad þá best ad þad se sem grænast. Eg held best, þá þvi verdr vidkomed, ad þurka úthey einasta so þad verde hreinlega grasþurt og setia þad sídan í vænt og velþrygst sæte, og láta þad so standa nockra daga, og sídann láta þad inn og þá reynez þad gott og grænt á vetrinum.*) Næst epter lambaheyid skal slá fiárheyid og velia til þeß vidlíkt enge og eins med heyid fara. Þad hey, sem nockurt vídlauf

*) Þad er under giædum heysins komed hvad mikinn þurk þad þarf ádr enn þad er sett í fætid.

erlavf er f, er halded miked gott fyrer fe. Vissar grasategunder upptelia útlendsker sem seu heilnæmar og óheilnæmar fyrer fe og mun þad eins vera um heyid sem af þeim grösum giörez.*)

§. 3.

*) Hr. Linnæus nefner hid heilnæmasta gras fyrer fed Festucam ovinam, þad er einslags Pyntgrese sem vex helst á Fiallende, og Bursam pastoris, Púngarfe, sem vex í túnum. Adrer nefna ogso Anthoxanthum, sem er einslags pyntgrese og vex á hálendum engium. Hr. König seger ad Íslendsker halde Eqvisetum palustre, fluviatile og hiemale sem eru Eltíngartegunder, gódar fyrer savdin; en Hr. E. Olafsson i sinne ISLANDS REISU §. 30 og 32. seger rettelega ad þó þetta gras giøre hold, se þad þó kraftalíted Fódur. Sama er ad segia um Bláberialíng; en um Adalbláberialíng og Beitelíng er allt annad sem halded er gott fódr. Med þeim óhollu grasategundum telr Hr. Linnæus Eqvisetum, Flammulam, Anthericum rc. Mr. Thoroddi telr enn nú fleire; enn eg vil yfer høfud halda ad flest allt mýrgreses kyn se óhollt fyrer savdinn. Par á móte flest allt þad gras sem vex á hædum og þurr-

## §. 3. Um̃ annad foodr.

Eg vil her ei tala um baren fiske-bein og þeßkyns, sem menn gefa fe í navdsyn. Ei heldr um Fiallagros, sem litel fáz monnum til fædu og þvi sídr fe. Enn Sol vil eg nefna. Þav eru og maña-matr, og eru mikel til þeß teken á Eyrar-backa fyrer avstan og tilforna var þad eins her í Savrbæ enn er nú illa aflagt. Ad sonnu kynnu þav varla so mikel saman ad dragaz ad savdfe væru til stórrar frambúdar; enn med þvi fe er so miog gefed fyrer saltinu, og þad er þvi so hollt, so sem útlendsker þar um skrifa, og ver siálfer siáum á eyafe voru, þá helde eg þad afargott fyrer þann, sem halda vilde uppá fe sitt, ad gefa þvi þeß ámille Solvahnefa.*) Um rætur, sem eru í Englande haldnar hid allrabesta fódr

þurlende held eg heilnæmt, sasvel þó kunne ad vera nockud samandragande (adstringens)

*) Hr. Land-Physicus Biarne Pálsson hefur skrifad um̃ Sol fallega Disputatiu og hefur þar sýnt hvorsu þav eru holl. Siá sídar Cap. 8. §. 5. Not.

fódr fyrer saudin, vil eg ei tala, og þó hefe eg reynt bæde rótanna og kalleggianna nytsemetil ad ala saudé á. Utlendsker skrifa miked um hmeslegt vidarlauf til fódurs fyrer peníngin; enn þar ver erum mjög óbyrger af öllu vidarkyne og þad líted sem ver höfum af birke- og víderskógum synez ei kunna lenge ad endaz til kolagiordar, þvi stór til añarrar brúkunar, vil eg eckert til þeß ráda. Enn ver höfum vída miked af krækeberia og sortulínge, og þar med held eg menn giætu giört sér mikel fódurs drygindé. Ad sönnu er þetta líng, serdeiles Sortulíngid, miked samandragande (adstringens) enn þó er Eikelaufid enn mú meira samandragande og þó hrósar Hr. **Boye** þvi miked. Eg hefer ei stórt reynt ad gefa saudfe líng, enn fyrer geldneyte hefer eg reynt þad, og hefr þad vel luckaz og ádr i Cap. 1. §. 10. hefer eg þeß get-ed hvörsu gott hænsna fódr þad er.

## §. 4. Um líng.

Serdeiles held eg ad líng være gott fyrer fiorufe, og so er þad nordanlands, ad þá fed kemr úr fiorunne, brydr þad

upp kræfeberialíngid, og liter vel af þvi. Þó skylde ei líng gefaz eingavngu, heldr skal nockurt hey med þvi gefa; língid fyrst og sídan heyid, og munde med þvi móte mega drýgia heyid til þridiúnga ef ei til helmínga, og være þad ei allítell ábate, serdeiles vegna þeß, ad med þvi língid er grænt allt árid um kríng, getr madr dregid ad ser língid þegar hann getr ei leingur fengid heyid á havstin, og so á vetrnar þegar uppleysér af þvi. Þad útheimter ei annan þurk enn ad þad se vatnsþurt þá þad er innláted, og heldr þad ser þá grænt allann vetrinn. J húse ser best ad geyma þad, enn þar húsrúmid vill einatt vanta hiá oß, þá má og geyma þad úte under berum himne og er eins gott, ef ei betra, þó í þad fenne. Kiæmuz menn uppá þetta, er eg viß um ad menn mistu ei so nidr fe sitt og kýr í hor eins og menn einatt giora. Geldneyte giætu þá marger haft med litlum kostnade, ad eg ei um hænsin tale. J fám ordum: Allt þad sem grænt er allan vetrinn má til fódurs nýta. Um Eikelavfed seger ádrnefndr Boye „ad savdse hafe þar af

„ mik-

„ miked gagn, serdeiles þá regnasumur
„ innfalla; þvi þad þurkar innvortes,
„ eyder þeim ofmiklu vessum og styrker
„ inniflin, sem af miklum raka eru lin
„ orden, og hindrar med þvi móte alla
„ vota og skadlega siúkdóma." Somu verkun munde krækeberia- og sortulings hafa, og være þad þá miøg heilnæmt se voru framan af vetrinum epter regna havst, sem optar eru hiá oß. Þó skylde língid gefaz heldr roskna fenu heldr enn lømbunum; þvi vid þad verdr alldrei ofleiked, og þó kynne líted af línge ad vera þeim hollt med einstøku sinnum.*)

## §. 5. Um̃ língskamtinn.

Sídar mun eg um̃ heyskamtiñ tala; enn med þvi eg giore ei ráð fyrer ad marger mune med língid brúka, vil eg her um̃ leid eg um̃ þad tala, þeß geta, ad ei hiálpar ad gefa þad á joturnar í þeim

 somu

*) Hr. Amtm. Olafur heldr minna af línginu og má þad og vel vera ef miked være af þvi gisrt ad navdsynialavsu, enda munu og sáer taka þad upp og se feller sig ei heldr vid þad utan í húngre.

fornu stórflixum sem það er rifeð; helldr verdr fyrst mold og mosa allann úr því ad hrista, og sídan tæta það vel í sundr og slíta úr því alla legge og fornvide, enn rífa það siálft smátt í sundr. Enn hvorium á húsbóndinn ad skipa þetta? Svar siálfum ser, ef hann vill fá það ærlega giort. Það sem vinnumenn vorer eru ei vaner vid, og þó kostar nockra nærfærne og yferlegu, þá eru þeir sumer og þó ofsáer, sem legge þar retta alúd á; og þó eg hafe líted af korgum og hirdulausum vinnuhiúum ad segia, þá veit eg þó af umhvortun annara, ad þetta er so; og það sem verra er, er ad bændur siálfer eru allt ofmarger med því marke brender, ad það sem kostar umhirding og yferlegu nockra, það vilia þeir ei giora; edr til dæmes: hvad marger nýta Arfann sem vída vex mikell í havgum? ecke einn í tíu, af því ad það kostar nockra yferlegu ad reita hann í sundr og þurka hann, og þó er arfinn það allra besta miólkurhey. Hvad munde, ef ver ættum ad saxa hálminn handa peníngnum eins og það er brúkad utanlands? og striúka lausid af hvorium qviste

eins

eins og þar? Þvi þar sem lavf, er gefed, þar eru ei qviſtirner gefner á jotnrnar, heldur er lavſid af þeim ſtrokid og ſo penngnum gefed.

## §. 6 Ad ſetia fe á hey.

Þar verdr eingen almenneleg regla umgefen hvad miked hey ſkule ſavdfe ætla, þvi þad er ſo miked komed under landslage og útegánge. Þar ſem iardaſamt er á vetur, þarf fe kannſke eckert ad gefa í almennum árum, ad eg ei tale um fe ſudr og avſtr á lande, hvar ſagt er ad þad life á einſomlum útegánginum. Enn þad er ei allt under þvi komed ad fed hafe alltíd iordina nóga, þad ſkal og hafa hana góda, þvi eg þecke til i einne ſveit her í ſýſlu, hvar ad er iardaſamt og vorgott, og þó þarf fe þar giøf og mikla giøf fram á vor ſkule þad ei drepaz í hor. Veldr þad þvi ad þvi er þar beitt á myrlende og þad er meſtallt myragras med Eltíng ſem þvi er gefed. Eñ þad er ogſo reynt ad þá fe er halded þar í fiallinu, lifer þad vel med litelle edr avngre giøf. Aptr hefr mer vered ſagt frá, ad ſudr í dølum á fialliordum, hvar opt er

miog skarpt um iord, so ad fe verdr stund-
um ad standa málþola inne þegar ei er hey
til, þar lifer það og fæder optast vel lomb
sín. Aptr þar sem fiara er, þar letter
hún miked under, og sumstadar er hún
so góð, ad fe lifer eingongu á henne
med útegánginum. Hún er á vestfiords-
um talen uppá so og so margar vikur,
enn eg hefe enn nú ei fenged ad læra
greinelegann skilníng þeß ords. Nord-
anlands í snióa sveitum þiker ærin ei
vera vel byrg nema henne seu ætlader
3, kaplar. en lambinu hálfur annar edr
2. kaplar. Logmadr **E. Olafsson**
seger í sinne **Íslands-Reisu** pag. 208
§. 319, " ad í Borgarfirde se 1. kap-
" all ætladr lambinu enn 2. kaplar
" ánne edr roskinum savdnum;" og se
þetta gott hey þá er roskeð fe her vest-
anlands vidast hvar vel af þessu halded;
enn lombum, skule þav vera vel halden,
hrockur ei 1 heykapall. Búalog segia:
" Fiórdúngs vondull er fyrer 12 ær á
" dag á Þorra; fyrer 7 á Góe, fyrer
" 4. á Einmánude." Onnur segia:
" 8. ær eru á vondul heys á Þorra. 6.
" á

„ á Góe. 4. á Einmánude." Adrer
„ segia " ad 3. vøndlar skule gefaz á
„ dag 21 savd vetrgømlum og sumum
„ tvævetrum; verda þá 7. um̃ voudul;
„ enn ef innestendr, þá skulu 6. um̃
„ vøndul. Þá elde nálgaz hvoria á,
„ skule 5 um̃ vøndul." Sá Svenske
**Boye** ætlar roskuum savdnum á dag 3
pund heys og reiknar fódrtíman 200 daga
þad eru nær þvi 29 vikur. Þá fá 6.
ær 18. pund og i 29. Vikur 48. vætter
heys. Þá tekr ásavdar kúgildid upp meir
enn hálft annad Kýrfódr epter vorum
reikninge og þad giorer miked ad þvi skule
þad einlægt standa vid frá vetrnóttum til
Kroßmessu og hafa so sem þad vill. Sá
sem vilde koma ser upp gódu siárkyne
epter 1. Cap. §. 5. og ætlade til ad láta
þad bera snemma og lavngu fyrer mál,
serdeiles ef hann ætlade til miólkur af þvi
framan af vetrinum, hann má í þad
minsta gefa 6. ánum fiórdúngs hneppe
á dag af tødugiæfu heye fram̃ á Góe;
enn úr þvi til Kroßmessu edr lengr fiórd-
úngs hneppe í hvort mál, þad lætr nærre
þvi sem þeir nordanlands epter ádrsøgdu

ætla se sínu. Þvi 3 kaplar heys handa 1. á vega víst 60 fiórd. Þad verda handa 6. áum 45. vætter, og þad lettez um̃ siottúng frá þvi þad er innláted og til þeß á veturnar. Þad sem her er ætlad 6. ánum skylde þá hrockva 9. lombum enn þad er med þvi móte ad gimbrarnar seu ei látnar fá.*)

## IV. Cap.

### Um̃ vetrarhirding lambaña.

### §. 1. Um̃ utelegu lambaña.

Eg hefer í fyrerfarande Cap. §. 1. talad um̃ útelegu lambanna, og lagt til þad forord ad so lenge sem lomb legde ei af, mætte láta þaug útegánga. A skógar jordum luckaz bændum þad opt lenge ad láta

*) Hr. Amtm. Olafur seger ad hey lettez um̃ helmíng, þá þad staded hefr í stacke allann vetrinn; aldrei minna enn um̃ þridiúng. Eg get ecke um̃ þad sagt; enn af þvi sem almeñ venia er ad 1 heykapall lánadr á vetr betalsaz aptr med 2. kaplum á sumre, mun þad nærre láta.

láta lømb liggia úte í skóginum; enn þó er hætt vid því, ad ef lenge er vid þad þreitt, ad lombin verde innan mögur, sem ei er so hægt ad finna, þó fara fiár-menn miked nærre um̃ þad, þá þeir taka á kindinne nedann, því þad er húm iñan.

## §. 2. Ad ellda Fiárhúsin.

Þegar madr vill fara ad láta liggia inne skal fyrst eld í húsin bera og þad kinda og láta verda mikla svæluna, og skylde helst til þeß velia hrođa og annad rusl, sem giører ramma svælu. Orsök-in til þessarar eldíngar er eingen hiátrú, heldr hin sama sem ádr er um̃geted i Cap. 1. §. 12. um̃ ad bera eld í Steckinn og lambakróna. Adr enn lømbin eru iñlát-in skal og athuga um̃ gluggana á húsinu ad þeir seu í gódu stande, og være gott ad hafa nockra avkaglugga edr þó heldr vindavgu;*) því þegar lømbin, sem hafa leged úte, koma fyrst inn, bregdr þeim

 ofr

*) Um̃ gluggana er ádr talad Cap. 2. §. 9. Þegar lømbin fara ad veniaz vid hitann skad-ar hann þav minna, enn þó er kuldinn alls-ed hollare.

ofrmiked vid, ef þad þá strax mæta nockrum merkelegum hita. Til med ega þad þá ad taka átinu; enn þad er viß og reyndr hlutr, ad skepnan etr miklu lostugar í kuldanum heldr enn i hitanum, og er þetta med odru ein tilkníande orsok til ad hafa vel kallt í fiarhúsunum. Og loksins skal athuga ad húsin seu vel þurr og hrein, og þarf þá optast nær ad bera á þad fyrst í stad.

## §. 3. Um áburdinn.

Lambhús þurfa sialdan med mikels áburdar; þvi med þvi lombin eru ei útláten utan í þurru og gódu, so fykr ei heldr í lagdin á þeim og blotna þá ei húsin. Rosked fe, sem kemr inn smóugt og þad fe, sem i fioru fer, af þvi þad etr salt og dreckr sídan miked, þad bleiter heldr húsin og þarf þvi heldr á þad ad bera. Þvi góder fiárbændr kalla saudfe sitt ad nockru leite tapad, ef skófin kemz í bríngunaog hnen á Þvi. Til áburdar á húsin halda menn saman almennelega afrakstrinum af túnunum; enn so sem ádr Cap. I. §. 14. er ávíked, ad slíkt vottar óþrifnad

nad og hirduleyſe á túnunum, þegar þad er ei allt ofaní túnid maled, ſem á þad er bored og eins mykeſkánirnar og hroſſatadid, ſem nú er alment á túnum. Nóg hroſſatad og mykeſkáner eru út um hagann og være nær ad hreinſa eingiarnar af þeim og halda þeim ſaman til ad bera á húſin, heldr enn ad láta þær fara í heyid á ſumrin, ſem því er til margfaldra ſkemda. Þetta þarf ei ad vera til ſtórra verkatafa; þvi letta drengr edr ſtúlka geta þetta giort þá þeim er fengenn heſtrinn med kláfunum. Góda þurra mold mætte og brúka, enn þad fordæma nú aller, medan ſá óvandc varer ad brent er öllu ſaudatadinu. Med þvi eg hefe lavſann mó, ſem miog molnar nidr, þá brúka eg hann til áburdar og af þeim áburde held eg hvad meſt. Merkelegt er þad ſem Riddare Liñæus ſeger í ſinne Skaaneyar-Reiſu pag. 157. " Uppbored mótorf í havga, mol„ nar í ſundr og verdr ad iord, enn „ þó enn núſliótar ef þad er blandad „ med nýrre tedſlu. Sá ſem á edr „ hefr tilbúed ſer ſlíka mold annad-

„ hvort

„ hvort af peníngstedslunne edr tiarna=
„ bleitu, sem blandad er vid torfid hañ
„ á einn avd fyrer sitt tún og akur
„ og þann retta áburd. **Luckuleger**
„ **eru þeir bændr sem þeckia sitt**
„ **eged gagn.**" Enn þad má sýn=
'az undarlegt sem same víse Madr seger
pag. 241. " Svediande [so kalla þeir
„ þad ad brenna skógana til ad sá í
„ oskuna] í þeim stodum þar sem ei er
„ bara steinn under, er stór landsins
„ eydelegging; enn ad uppbrenna mó=
„ torfid er tíusinnum meire skade sosem
„ ein skógr kann 20 sinnum ad upp=
„ vaxa medan eitt torfnám er ad vaxa."
Þetta má nú vel vera, þar sem so er
þettbylt og miked á eldevid haldeð, so
sem er í útlondum; enn ver munum ei
þurfa móskurdar eklu ad óttaz; enda er
oß einsætt hana ad brúka, sem ei hof=
um annad hentugra. Enn sá sem hef=
de krapta og frañqvæmd til ad draga
ad ser nógann mó á sumrinn til ad bera
á fiárhúsin og bera inn á flórinn á vet=
urnar og blanda saman vid tedsluna,
sá giæte haft yferfliótanlega nógann og
góð=

góðann áburð, og þar á epter yfer-flióðanlega nóg og gott hey og mestu húsæld.

Aburðinum er víða safnað i jötunnar á sumrin, enn það er til stórrar óhægðar þegar fara á að gefa, og er því navðsynlegt að hafa kofa við fiárhúsin til að safna honum i.

## §. 4. Um moldtað af fiarhwsum.

Aburðurinn minner mig á moldtaðið á húsunum. Það sem her vestra er kallað moldtað, það er fyrer norðan kollud mylsna. Það varaz aller góðer fiármenn að láta moldtaðið vera á húsunum. Þegar það kemr, moka sumer því í havg úte fyrer fiárhúß dyrunum; aðrer dreifa því strax út um túnið og sprettr þá vel undan því; enn þeir sem halda til savðataðsins, bera snió inná húsin, eðr þá snión er ei, dreifa vatne um þav. Moldtað er því skaðlegt á húsum, að það ei einasta sest i lagðinn á kvndunum, heldr og orsakar þeim lús, ofrif og kláða.

## §. 5. Um lamba elde.

Þad er ein hofud regla, sem aller góder bændur brúka, ad taka lombin vel og gefa þeim bæde gott og miked framan af vetrinum og allt til Þorra edr so lenge þángad til þav geta lett under med útegánginum; þvi vel alen lomb framanaf vetrinum, hafa miked ofanaf fyrer ser úte þegar kemur fram á mánude.*] Enn sá sem vilde koma ser upp gódu kyne, skylde gefa þeim lombum allann vetrin; þvi epter þvi sem lombin ega fyrsta árid epter þvi reynaz þav til miólkur, ullar og holda þá þav verda roskner savder. A þetta vikr Hr. Hastfer í sínu Skrife pag. 34.**)

§. 6.

---

*) Hr. Amtm. Olafur seger miked vel, ad þad se stór navdsynlegt ad fódra lombin fyrsta árid so vel ad þridiúngs hornahlavp seu komen á þavg á Þorra og lombin seu skyld í Midgóe; þar epter verdr savdurinn, sem han er haldinn þad fyrsta ár, og Navtid epter sem þad er fódrad, þann forsta annann og iafnvel þridia Vetr.

**) Þvi hefr vered hrósad fyrer mer ad gefa hveriu lambe inn á Havstinn þegar þad er

ad

## §. 6. Ad láta lömbin gánga r̃te.

Þó lömbunum se nú so vel giort, sem seger í næstfyrerfarande §. þá brúka þó sumer bændr það að láta þav fara alltíd út med fenu þegar þurt og gott er. Af þeirre aðferð held eg miked ef skamt er til beitarinnar; enn þurfe se lángt ad reka, skyldu þó lömbin ut látaz og vaktaz serílage skamt frá. Med þvi móte veniaz þav strax vid útegángin, þav fá þá optar ad vidra sig, hvar vid kroppurinn stirkez, þvi það er víst ad med nógum og gódum mat og ánægianlegum klædnade stirkez líkaminn af hreinum kulda og froste. Og lömbin eta lostugar fódur sitt og hafaz þá ogso betr vid.

## §. 7. Ad vatna lömbunum.

Sagt hefr mer vered ad þad hafe sumer brúkad ad vatna lömbunum alldrei, og iafnvel halda þeim so fast inne ad þav nái ei út ad koma til ad eta snióin,

ad teked, spónblad af siálfrunnu Hákallslýse, og víst mun þad miked gott til ad hafa Miálg og óþrif innanúr lömbum.

sniódnn, og ad þeir hafe haft allþrifa góð lomb. Enn hvad er það sem vor sterka fiárnáttura getr ei afbored, serd' eiles þá hún er úng á eitthvad vanen? Enn þó vil eg þessare adferd f avng vann máta fylgia; þvi hún sýnez ad vera gagnskæd edle hvorrar skepnu, og ecke vill Hr. Haßker sæma hana, heldr vill hann lofa savðnum ad drecka þá hann vill, og heldr sniðinn vegna þeß salts sem í honum er, miog hollan senu. Her um hefr von Justi skrifad í sínum Oeconomische Schriften 2. Band 5. Abth. 6. Betr. Von dem Saufen der Schaafe. Vitad hefer eg gódan forstands bónda, sem tók þad upp ad setia stamp inní húsinn hiá lombum sínum og moka hann fullan af snió, hvorn lombin átu og þókte honum það þá miklu best vid hafaz.

## §. 8. Lomb sem misþrífaz.

Þad athugar fiármadrinn hvort lombin þrífaz oll eins vel, enn það vill optar til ad sum þrífaz midr enn sum. Ein orsok þar til kann sú ad vera ad sum

sum lombin ete seint og latlega og þrîf. az þav þá midr, þvi hin lombin eta þavg af; enn ei skal meira gefa um sinn heldr enn so ad lombin vinne vel upp. Vid þessu varar optnefndr Hr. Boye og seg- er ad þegar lombin komez fyrir á ad eta illa, þá vili þav halda þeim vana alla æfe sídan. Þetta verdr fiármadrinn ad skamta, og eru þeir so vaner vid þad marger, ad þeir geta stadhæft á hvad morg og hvad stór hneppe þurfa handa so og so morgum lombum.*) Þav lombin sem sein- legar eta, verda ad króaz af, edr þó heldr ad hafaz serílage; og er þad hárla navd- synlegt ad hafa smá hús med hinum stærre til ad hafa í þad af savdpeníngnum, sem meira þarf ad hiúkra.

## §. 9. Um lws og klæda a lomb- um.

Onnur orsok og hin almennasta til þeß ad lombin sum edr oll illa þrífez er lús og kláde. Ad sonnu held eg þad ad

G sá

*) Þad er vid allann heyskamt, enn þó serdeiles þá savdse er gefed, miked athugaverdt, ad hrista heyid ádr sem allrabest.

fá sem epter Cap. 1. §. 6, 8. lete lömbin ega gott við sleckinn; og epter §. 28. giorde þeim badið; epter Cap. 2. §. 7. 8. lete lambhúsið vera vel kallt og rúmgott og lete lömben hafa nóg og gott fódr og lofade þeim að vera úte í þurru, hann munde ei þurfa um lús að qvarta á lömbum sínum. Eingen er þó almennare umqvörtun bænda, og má það undarlegt þikia þar eckert er skadlegra,. Því lömbin taka þá upp helmínge meira hey, og hafa þeß þó ei not, enn eckert sýnez þó hægra að bæta, þó hefe eg geted um nockra vorkun fyrer kotúngin í þeßu efne í áminstum §. 28. Það segia sumer að lúsina mege gefa úr lömbunum og það hygg eg satt se; enn þar til þarf þá úrtökugott og rett toðugiæft hey. Flester brúka lýses íburðinn, enn misiafnt ber til um það að það hríse. Keitubaðeð so brúkað og giört sem eg i Cap. 1. §. 28, hefe fyrerskrifað, er það bësta og ótvílugasta.

## §. 10. Um gemlíngabaðið.

Til að giöra lömbunum baðið skal veliaz gódr dagr, og lömbin þá ei látaz

úti

útí kulldann heldr inní heitt hús. Best er ad vera ámedan vid lambhúsid og láta þar þá vera heitt, enn þo má ei giora lømbunum kiæfu med þvi ad byrgja alla gluggana. Þvælid getr madr heitt í einhvörin fiárhúsinu sem nærre er ámedan fed er úte, og má so vera vid lambhúsdyrnar med badsáinn. Þar sem lángt er til fiárhúsa, þar verdr ad bada lømbin heima og hleypa lømbunum inní fiósid, so ad sem minstr komez ad þeim hrollrinn.

## §. 11. Ad hornskella.

Þegar vart verdr vid kláda á lømbunum fer betr ad hornskella þau, so þau ríse ei af ser ullina og tálga stúfinn á horninu kríngdann; þó verdr ad gá ad taka ofláugt uppá, so ad ei kome nærre slónne, og kannske þad være betra ad bera eitthvad í sáred, sem setztez í fravdholurnar, so kuldan legge ei þar igegnum inní hofudid.

## §. 12. Ad stynga wt wr hwsum.

Þad er alment ad útúr húſnm er ſtúnged á mánndunum; enn heyrt hefer eg góda forſtands bændr ſegia, ad ſavdſe og ſerdeiles lombum bregde vid þad og ad þav hafez ei eins vel vid nockurn tíma á epter, þetta er og í þann máta ſkade fyrer bændr, ſem hartnær allſtadar brúka ſavdtad ſitt til eldsneytes; þvi tad þad ſem frís, er hvorge nærre ſo hitg miked ſo ſem hitt, ſem þornar ſo þad frís ecke. Þad ſýnes ei heldr ſo hægt edr hollt fyrer lambfullar ær ad hafa háa iotu, þeß giorez ei heldr þorf, þvi ſo lenge ſavdurinn þarf ei ad ſeliaz ofanfyrer ſig med hofudid inná ioturnar, ſo lenge er ei ofhátt ordid tadid í húſinu. Ei þarf heldr ad óttaz ad ſavdurinn heldr ſlæde fyrer þad þó lágt verde á ioturnar, þvi þad er þá ad kenna iotubondunum, ſem þá eru of há.

## §. 13. Ad lambgimbrar fæe.

Þó bændur hafe nú láted lambgimbrar ſínar fá medan þeir eru ad koma upp kyndunum, var þad þó ei venia til forna ádr enn faraldrid kom, og er nú fared

aptr

aptr af ad leggiaz. Veldr þvi meira þad, ad þeim þikia lambgimbrarnar, þá kosta meira og betra fódr, enda lomb þeirra verda vesælle enn undan roskmum ám, heldr enn þad, ad þær verde ei fyrer þvi einsgódar og ganglegar ær. Enn ef þeir giorde lambsladsumgimbrum eins vel og þeir giora þeim lembdu, þá munde þetta odruvis reynaz og þær verda miklu betre ef þær fá ei lomb, og þetta munu aller þeir sanna sem reynt hafa hvorutvegia, og þad er og gott ad skilia; þvi þad gengr nátturlega til. Sá ypparlege Svenske Boye vill ei ad ær fáe lamba fyrr enn á þridia áre, og hann verdr ad hafa rett fyrer ser, þvi aller vita ad saudrinn hefr ei fenged fyrre fullan þroska og so lenge allt þángad til verdr þad ad kippa úr honum, ef hann á ad bera og næra sitt fóstr.*) Þvi vænne sem ærin verdr, þvi meira gagn giorer

 hun

*) Þetta vita bændr af egen reynslu, þvi þeir hafa sagt mer frá ad þegar ær hafe ei fenged hiá þeim fyrr enn þrevetrar, hafe þær orded vænne enn annad þeirra fe, og einn hefr sagt mer ad ær, sem ei feck fyrr enn hún var 4. vetra, hafe skarad lángt framúr ad vexte og ødru atgiørve.

hún þá hún kemr til, og eg efa ei ad foddʒ an ær kynne vel endaz til þeß hún er 8. edr 9. vetrá, þar vorrar ær nú endaz ſialdan lengr vel enn þar til þær eru 6 og 7. vetra.

## §. 14. Um hrwtlombin.

Þad mega ega ſama árángr og hin lombin; þó vil eg þad ſegia ad þó þeim være betr giört være þad til betra eins, þvi þeß vænne, ſem brundſaudirner eru, þeß betra er þad, og geta þeir alldrei ordʒ ed ofvæner, þvi þar um er reynſlan viſſʒ aſir vottr ad lombin líkiaz ollu meir hrútunum edr hrútamædrunum, ſem þá er ad kenna hrútunum, heldr enn ſínum egen mædrum, Þad er nú og ſo af háyferʒ voldunum fyrerboded ad brúka lambhrúta til ána.

## §. 15. Um utegavngu gemlingʒ anna.

Þegar kemur fram um ſumarmál, og þar ſem ſo er landslage vared ad þar ſeu ſkiól og afdrep, er allgott í bæreleg um vorum ad ſleppa þángad gemlíngʒ

ugum

unum og láta þá liggia úte, og gánge þeir feiter undan, eru þeir þar ótvíluger eins og þó þeir være hafder heima vid á giof, og þessa adferd brúka bændur vídast og er hún allgód. Þegar gemlíngarner eru framgengner er ei annar vande vid þá, heldr enn annad fe, enn ad láta þá ganga í fiallhogunum allt sumarid; enn med því ádr verdr af þeim ullina ad taka, og þad er þeim samegenlegt med roskun fe, vil eg nú þar um nockud tala.

## V. Cap.

### Um ad taka ullina af fenu.

### §. 1. Ad taka af ullina med vaxande twngle.

Sá Svenske Herramadr Boye gefr þá reglu ad savdfe skule klippa med vaxande Túngle. Eg medkenne ad eg á miked bágt med ad trúa því, sem eg skil eckert í; enn þó hefr margfold reynsla so audmykt mig, ad eg voga ei ad neita þvílíkum nátturlegum verkunum þó eg skili ei orsakirnar, og þiker mer þad því of-

þirfd ad halda þad fyrer hegóma, sem vitrer og athugasamer menn kenna í þvilíkum efnum, og þvi vil eg heldr fylgia ádr skrifadre reglu þegar þvi verdr vidkomed.*)

## §. 2. Tveñslags fe hiá oss.

Tvenslags Savdabragder her hiá oss: annad er sem menn kalla **Starhærdt**, þad er togmiked og lagdrínn líted edr ecke hrockenn, enn þeled er líted og slæmt. Þad annad kalla menn **Ullargott**, og hefr þad lítid tog hrocked

*) Hr. Amtm. Olafur tilleider mørg røk um þessa Túnglsins verkun; sosem ad børnum vaxe sliótar og betr hár, þá þad er af þeim klippt med vaxande túngle; ad allar skepnur, sem taka á móte sæde, hafe skemre medgavngu tíma, so ad fullum 14. døgum kune muna edr meira; ad skepnum blæde miklu meira med fullu túngle og útfallande sió, heldr enn med smástravm og hálfu túngle og ad kiøtid líte ólíka út í bádum tilfellum, serdeiles þá þad er soded; og ad þá gróe sliótara, þegar fræinu er sád med vaxande túngle. Eg læt her um hvørn ráda sinne meiníng, vil þó heldr fylgia þvi, sem reynslan sýnez stadfesta, þó eg skili ei orsakirnar.

hrocked og miked og miúkt. þel. Eg get vel trúad þvi ad þad starhærda se ei annad enn úrkyniun þeß Ullargóda, og ad þad mege med lángseme og gódre rækt koma upp ullargódu fe af starhærdu; enn þad starhærda siálft verdr alldrei ullargott, hvorsu opt sem þad er klipt.

## §. 3. Um Starhært fe.

Starhærdu fe er so vared, ad sú gamla ullin skilr sig alltid frá þeirre nýu, þvi ad toged er so miked ad þad skilr alltid á mille, og med þvi þeled þad forna og nýa nær alldrei saman, so sameinast alldrei sú forna og nýa ullinn, so ad þó menn villde þetta fe klippa, hafa menn þar vid tvöfalldann skada enn avngvann ábata. Sá eine skade er þad, ad þá madr klipper, þá klippaz af tog hárin, sem standa útí gomlu ullina og verdr so sú ull full af illhærum; slæm var hún og verre verdur hún vid þær nýiu illhærur. Sá annar Skade er sá, ad þó madr skili epter botnen á gamla reifinu þá madr klipper og ætle til ad hann skule verda skiepnunne til skióls, þá slisiar þesse botn sig frá og fellr í burt

og misser madr þar vid ullina enn skepnan hefr eckert gagn af þvi, sem strax dettr í burtu. Eg skil þvi ei ad klippíng kunne ad giora þessu fe nockud gagn og være þvi hvorium einum best ad lóga smámsaman þessare fiártegund, enn koma ser heldr hinu upp, sem er ullar betra.

## §. 4. Umm horse.

Þad annars slags fe, sem eg held ei hiálpe ad klippa, er **horse**; þvi aller vita ad af þvi dettr ullinn og hafa menn mikla mædu og fyrerhøfn ad láta hana lafa á því, so menn verda ad hnýta saman lagdana og stundum jaøma á þad leppa, þvi þad er mansbert under. Her siá aller ad klippíngin giorer eckert gagn. Opt ber þad vid, ad þó ær seu vel fýldar á hálsinum og á bádum sídum, þá eru þær þó berar aptr epter midium hriggnum og í lærunum. Her sýnez nátt-úran siálf vísa til hvar ullin se best og vest á savdnum. Ei veit eg hvad best er ad bera ofant þessa beru stade á kyndinne til ad hlífa henne vid kulda og sólbruna. Þad algengna medal er ad bera

bera þar ofank miólk og núa ſídan í mold. Enn þó helde eg meira af þvi ad bera þar ofank eitthvad feitt, ſerdeiles ſiálf-runned hákallslýſe edr ſúrt ſmiör og ſídan núa þar ofank miúkre mold, ſerdeiles þeirre hvítu Petursmold, þvi hún kaſtar frá ſer ſólargeiſlunum og hitnar ei eins miked og ſú ſvarta mold; enn um ſituna er þad reynt ad hún ver bæde froſte og bruna.

## §. 5. Um ullargott fe.

Eingen ætle ad eg med þeſſu vili laſta þad ad klippa fed. Nei! Eg held ſiárklippínguna ypparlega og hid naud-ſynlegaſta medal til ad hafa vænt og ullargott fe. Enn hún verdr ei til gangs brúkud nema vid feitt fe og þad ſem af náttúrunne er nockud ullargott, enda ſeger nátturan ſiálf til hvar hana þarf ad brúka, og iafnvel neider mann til ad brúka hana, ſo ad ſá ſem ei er rettr tyrke og á einhvoria ſkiæra garmana, hann brúkar þá heldr til ad ná ullinne af, heldr enn ad hárreita ſkepnuna. Hiá þeſſu fer ſialldan á ullargódu og

vel

vel feitu fe, á þvi er sú nýa og gamla ull so samangroenn ad hún verdr ei med tomum hondunum adskilen, og þeß optar sem slíkt fe er klipt þeß togminne verdr á þvi ullinn, ef þvi er alltíd vel giort. Og sosem hrútunum skylde alltíd best giora af ollu fe, so skylde og klippíng á þeim mest vanda og aldrei þá til brundsavda brúka, sem sú gamla ullin skilr sig siálfkrafa frá þeirre Nýiu.

## §. 6. Um fiarklippinguna.

Hr. Hastfer seger greinelega frá þvi hvorsu fed skule klippa, og med þvi líted af þeim bæklínge kom úti almenníng, kannske og ad ver fáum innaptr útlendskt Savdkyn, þá vil eg setia her inn hans fyrersogn í hessu. „ Sá sem „ klipper savdin, sitr rettum beinum og „ leggr savdinn bundinn á bakid mill„ um fóta ser; sídan heldr hann skær„ unum med hægre hende enn med „ þeirre vinstre heldr hann hofdinu á „ savdnum fostu vid sína vinstre sídu „ og byriar ad klippa allt undan kiálk-

„ unum

„ hüm og ofaná brínguna og so allt
„ í kríngum hálsinn. Þessa ull leggr
„ hann serkiage-, hvor ed kallaz hin
„ fyrsta hlutan edr Háls ull, og er hún
„ sú allra besta. Þvi næst klippez ull-
„ in under bógunum, allr qvidrinn og
„ innanverd lærin, hvoria ull menn
„ leggia í annad lag og heiter þad sú
„ fimta Hlutan edr Qvidull, sem er
„ sú versta. Þá klippaz sídurnar frá
„ bógunum og þunnvombin aptr ad
„ lærum. Þessa leggia menn somuleid-
„ es í hid þridia lag, sem heiter sú hin
„ fiórda hlutan edr Sídu ull, og er
„ nockud betre enn qvidullin. Þvi næst
„ er klipt aptr um rófuna utanverd lær-
„ in. Þá ull leggia menn í fiorda lag,
„ og heiter su hin þridia hlutan edr
„ læra ull, sem er betre enn sidu og
„ qvidullinn. Loksins klippez hriggrinn,
„ enn ullin af honum heiter sú hin ön-
„ ur hlutan, hvor ed í tillite til giæd-
„ anna gengr næst hálsullinne, hana
„ leggr madr einen i sin stad. --- Med
„ sogdum hætte klippez ullin og adskilz
„ í sinn parta edr Hlute. Skiærin
„ láta

„ láta menn liggia so þett vid skinnid, „ sem verdr, og skal striúka ullina iafnt „ og slett yfer þá nedre skiærakiñ, klippa „ sídan frá hægre til vinstre sídu. Þad „ næger ad skipta ullinne á þvi grófa fe „ í þriá stade, svo háls og hrigg ullin „ se hösd í einu lage; Læra og sídu ull- „ in í odru og Qvid ullin í þridia; þvi „ soleides er Ullargiædunum vared á þvi „ grofa fe. A þessu fe verdr ullin verre „ epter því sem þad eldez meira, enn á „ uppdrifnu og fullgódu fe, er hún ætíd „ hin sama úr þvi þad er hálfs annars „ árs gamallt. --- Þær íslendsku ær „ verda eige kliptar, medan þær eru „ lambfullar; enn geldfed aptr á mót, „ iafnvel fyrre enn ullin losnar. --- „ Kunne so til ad bera ad savdrinñ fáe „ litla skeinu þá hann er kliptr, þá skal „ strax bera þar á tólk, lyse edr ósaltad „ smior blandad med vidarosku, hvar af „ þad strax grær."

## §. 7. Uñ hreina og þvala ull.

Uñ Hreina ull tala þeir útlendsku miked og vara miog vid þvi ad hún verde

óhrein

óhrein. Í þvi Engelska Bwsyslu-Fræde seger „Ad ullinn se epter þvi í „ miklu afhalde sem hún se hrein og „ feit." Vid óþreinindum í vorre íslendsku ull er ei mieg hætt, nema þvi hirdulavslegar se med kyndurnar fared, og veldr því toged sem á henne er; enn ullinne á þyi uppdrifna se er þar miklu hættara vid, þvi hún er toglaus; og festez þvi skarnid so fliótt í henne. Þar vid er þad rád ad hafa, fiárhúsin vel rúmgód og kold, veggina innan mest alla bladna af laggódu griote med þunnum torfusilum á mille, sem ei náe eins lángt út og steinarner; joturnar seu vel háar, enn iotubondin lág; aldrei moldtad á húsinu, heldr verdr ad sópa þad qvold og morgna og eins ioturnar; og heyid má vera úrtoku vel hrist.. og þó er alltíd hætt vid ad ullin vili verda óhrein under qverkinne; enn af þvi verdr minna ef væn briggia er negld innan á iotustockana. Til þeß ad ullin verde þvol þarf ei annad enn giora fenu vel, so þad gánge feitt undan og taka sídan af því á rettum tíma.

§. 8

## §. 8. Tíme til ad taka af.

I §. 1. hefer eg sett þá reglu ad taka skylde af fe med vaxande túngle; enn þar fyrer utan verdr ad taka til þeß þann tíma sumarsins, þegar oll kuldavon er úte og er þad sialdan fyrrenn um og epter fardaga, og er þá teked af þvi gelda og stundum verdr ad giøra þad fyrre þvi gelder saudder sækia sem fyrst á fiollin. Af ánum er teked um og under Jónsmeßu. Her er allt under þvi komed hvorsu sed gengr seitt undan, því epter þvi má snemma taka af þvi, og eru bændur allathugasamer um þad ad taka í síduſtu log af illa fýldu fe.

## §. 9. Um lysis iburd.

Med þvi ad þad er almenn trú fólks ad ullin batne á fenu vid lyses iburdin, þá munde gott ad bera lyse ofaní þad þá búed er ad klippa þad, edr ef uppkynne ad finnaz hentug mold sem ádr er umgeted Cap. 2. §. 8. Not.

§. 10.

Þegar

Þegar búed er ad klippa gemlíngana þá er eckert annad vid þá ad giøra, enn ad reka þá á fiallid med ødru geldfe.

# VI. Cap.

## Um̃ hrwtana og hrytinguna.

### §. 1. Um̃ hrwta foodrunina.

Med þvi ullin á savdfenu líkez ullu hrútsins, sem þad erj undan; og med þvi ullargiædin fara epter fódre og situ fiársins samt ødrum adbúnade, so er avdsed af þvi hve miked á þvi ríor ad fara vel med brundsávdina. Þar fyrer skyldu þeir hrútar, sem madr ætlar til fiárins, látaz strax á havstin sem búed er fyrer þá ad savma, í velkallt og vel rúmgott þurt hús og þar gefaz gott hey á hvorre nóttu; enn med ánum skyldu þeir gánga á daginn úte. Med hrútana verdr alldrei ofvel høndlad, þvi epter þvi verdr þad fe, sem undan þeim elz, sem þeir eru siálfer.

### §. 2. Ad savma fyrer hrwtana.

Fyrer Hrútana á ad vera búed ad savma ádr enn ærnar fara ad gánga z eñ

vid þvi er ad búaz, ad þær fare ad gánga med fyrsta vetrartúnglinu. Her um̃ gefa **Bwalög** þessa reglu: „ Fyrer Hrút „ skal giora twævetran á vetrnóttum; „ vetrgamlan á Símonsmessu, lambhrút „ seinast Marteinsmessu, þad er 11. No= „ vembr. Almenn bænda regla er ad „ savma fyrer hrúta med fullu fyrsta vet= „ rartúngle." Og er í þessu alldrei of= vandlega hugad. Og skal þvi undereins fyrer alla hrúta savma hvort þeir eru ýnge edr eldre. Sumer brúka Poka, sumer fialarspelde, enn trogspeldin úr hrútshorne eru þó best.

## §. 3. Um̃ lambhrwta.

Marga góda og adgiætna bændur hefer eg heyrt þad segia ad undan lamb= hrútum yrde vænst lomb; en̄ undan gom= lum hrútum 5. vetra og eldre yrdu þav løkuz. Samt brúkudu bændur ecke ne brúka, ef þeir hafa onnur rád, lambhrúta til fiár; því ecke einasta eldre hrútar, ef þeir eru med femu, reka þá frá og iafn= vel drepa þá; heldr og geldu savdirner. Nú er þad af Háyfervoldunum bannad

ad

ad brúka yngre hrúta enn á annann edr þó heldr á þridia vetr.

## §. 4. Hvad margar ær skal atla hrwt.

J Cap. 1. §. 20. er um þad geted þá hrútlombin eru tiltekin, ad ætla skule heldr fleire enn færre, þvi bæde kuña þav ad missaz, enda sum reynaz epterá óburdug og ullarslæm og er þá stór skade ad brúka slíka slæma hrúta til ánna. Þad er ádr §. 1. um þad geted ad þeim Hrútum skule sem best gioraz, sem ætlader eru til brundsins. Enn þeir útlendsku gefa og strángar reglur um þad ad ei skule ætla einum hrút til brunds fleire enn 15 edr mest 20 ær. Her hiá oß ætla menn einum hrút miklu fleire, sem siá má af **Hwalogum**; enn þó einn hrútr gete addugad so morgum ám, sem þar seger, þá er þad þó ofotlun, ei einasta þeß vegna ad savdrinn verdr ad taka slíkt ofnærre ser; heldr og kemr þad sídar fram vid hann og verdr þá epterá miklu lakare og fódr þýngre. Satt er þad ad bændr, sem ei geta láted vakta ær sínar í morgum hópum, ega bágt

 med

med ad hafa med senn marga hrúta, þvi þeir beriaz einatt ákaflega og aflaga hvor annann; þó mætte meire nærsærne vid þad brúka enn almennelega er vant: Madr giæte láted sinn hrút vera hvorn daginn og so líka mætte skipta þeim hrútum mille húsanna á nóttunne sem eru inne á daginn.

## §. 5. Hvornen ege ad driifa upp fe med utlendskum hrwtum.

Umm medferd á utlendskum hrútum hefr Baron Hastfer skrifad: Hún er eingen onnur enn eg hefe ádr sagt i þessa Cap. §. 1. utan þad ad þeir útlendsku þola ei frost og illvidre. Enn þó útlendsker hrútar aptr innkiæme, sem óskande være, þá munde þeir verda vid Stamm-Scheffe-riet og ver fengium þadan þá sem útaf þeim elduz og þola þeir, sosem eg þad reynt hefe, alla somu medferd og vorer íslendsku Hrútar. Hitt er vandinn meire ad brúka rett Hrútana til ad drífa med. Þar umm gefr Hr. Hastfer þessar reglur.

1.) Madr útvegar ser 2. Hrúta í odrum lid (Generation) og lætr þá lemba sínar íslendsku ær. Lomben sem und-

undan þeim alaz, kallaz í **fyrsta lid.** Þeß vegna brúkar madr ei betre hrúta fyrst í stad, ad þad verdr ad vera ein föst hofud regla, ad brúka epter þvi betre og betre hrúta, sem madr kemz lengra áfram med uppdrifníguna.

2.) Hrútlombin í fyrsta lid erú ei hentug til ad drífa med, þó eru þav betre enn ecke neitt til ad bata med sitt íslendska fe.

3.) Þad setur madr glogglega á sig hvor lomb seu undan hvorium hrút, þvi þad er ein hofud varúd ad láta nockurn hrút lemba módr sína dóttur edr Systr, þvi þar vid úrkiniaz fed og verdr aptr lakara.

4.) Þegar gimbrarnar í fyrsta lid eru ordnar tvævetrar edr þrevetrar, þá eru þær látnar fá lomb vid þeim hrútum, sem madr fær ser af þridia lid ; enn gete madr ei þá fenged hæglega, þá má hann láta þær fá vid sínum gomlu hrútum af odrum lid, og heiter þad þá **annar lidr,** sem undan þeim elz.

5.) Þegar gimbrarnar af þeim ødrum lid eru komnar til þeß retta aldrs, hlýtr madr ad útvega ser hrúta í þridia lid til þeirra og þeirra afqvæme heiter þá **þridi lidr.**

6.) Eins má ad sønnu brúka aptr þessa hrúta og sagt er um hina fyrre i annan lid, enn þó verdr uppdrifníngin þarvid lángsamare.

7.) Handa gimbrunum í þridia lid, skal madr útvega ser hrúta af fiórda lid og heiter þá þeira undanelde **fióorde lidr,** og þauneg heldr hann áfram æ so lenge sem hann getr fenged hrúta af betrá kyne enn hans heima alda fe er, þvi þad er ein óriúfanleg høfud regla ad láta alldrei ullarlakare hrúta lemba ærnar sem eru ullar betre.

8.) Þad være harla navdsynlegt ad tveir menn, sem ei være miog lángt hvor frá ødrum legde sig epter soddan Fiártíngun, sem nú er sagt, þvi þá giæte þeir skipt um hrútana, sem er harla navdsynlegt.

9.) Hr. Hastfer seger ad sú Engelska Fiártegund se oß allra heutuguz og þó getr madr ad nockru brúkad þar til Eyderstadiska hrúta med þessare adferd: Fyrst dríſr madr med Eyderstadiskum hrútum í þeim fyrsta og ødrum, lid, enn sídan med Engelskum í þridia og fiórda lid, og verdr þá ullin á þeim sídustu so gód, sem hrein Eingelsk ull. Edr madr dríſr med Eiderstadiskum hrútum einasta í fyrsta lid, enn med Engelskum í ødrum, þridia og fiórda lid.

10.) Vili þad uppdrifna fe úrkyniaz, sem avdveldlega kann ske, þá hlýtr madr ad útvega ser þar vid lækníng frá Hofud-Schefferiinu, med þvi ad fá ullargóda hrúta.

## §. 6. Um brwkun vorra hrwta.

Ad vísu er þad satt, ad hverſu sem ver vildum bera oß ad, giætum ver alldrei med vorum íslendsku hrútum nád þeim ullargiædum, sem þad Engelska savdfe hefr; enn þad má muna málum hvørt ver hofum þad allra versta edr þad allra besta,

og víst er þad ad oß er þad siálfum ad kenna ad ver hofum þad ei miklu betra. Aller siá ad Uppdrifníngin er mest under ullargiædum hrútanna komen, og ef ver vildum taka til þeß vora allra ullarbestu og ullarmestu hrúta og á sama hátt drífa med þeim, sem í undangángande §. er sagt um̃ þá útlendsku, þá mundum ver miklu til leidar koma, og er þá grundvollrinn þartil sá sem eg hefe ádr lagt í þeß 1. Cap. §. 5. Ef þad er satt, sem sagt er, ad þeir Engelsku hafe mest komed upp sínu ypparlega savdakyne med þvi ad brúka ár epter ár og í lángann tíma þá bestu hrúta med hinne mestu varúd og nærfærne, þá kynnum ver kannske med sama móte ad koma upp miklu betra savdakyne enn ver nú hofum.

## §. 7. Ad halda vid goodu savdakyne.

Til ad vidhalda gódu fiárkyne gefr sá Svenske Boye þessar epterfylgiande Reglur.

1.) Madr skal taka 30. ær og 2. hrúta af þvi allra besta kyne, sem han getr feng-

fenged edr hefr siálfr uppkomed og brúka þetta fyrer Upprunakyn til fiár' síns. Her vid má eckert lakara savdakyn blandaz, heldr skal þetta vera í húse útaf fyrer sig og einkennaz frá ollu hinu fenu. Af þessu uppruna kyne eru ei einasta tekner hrútarner til hins fiárins, heldr iafnótt og þetta grundvallarkyn tíngaz, epter þvi er hinu þvi lakara fæckad, so allt verdr eins gott nú síder, þegar lifad er epter þeim reglum, sem í §. 5. eru fyrerskrifadar, og verda menn þvi ad þeckia greinelega hvorn lid og hvoria tegund frá annarre, so eckert blandez óreglulega. Madr má ei setia á sig þann kostnad sem þetta Upprunakyn útheimter, þvi eingen hlutr betalar eins vel uppákostnadinn eins og þesse.

2.) Ad hleypa avngre á til hrútsins fyrr enn hún er á þridia vetr. Siá Cap. 4. §. 12.

3.) Ad brúka avngvann hrút til brunds fyrr enn hann er á þridia vetr. §. 3. og ei lengur enn þar til hann er 6. vetra.

4.) Ad madr seti ei á sig þad fyrsta lamb, sem hvor ær fæder, og ei helldr úr þvi ærin er 8. vetra.

5.) Ad madr med ollu mogulegu móte bere sig ad koma þrosta í lombin. Cap. 1. §. 8. og Cap. 4. §. 5.

6.) Ad velia fe sínu góda sumarhaga og gott og nóg vetrarfodr, og serdeiles liggr Upprunakyninu á þessu.

7.) Ad madr leitez vid, ádr enn brundtídin byriar, ad þynna þá þickvu og seigu vessa hiá ánum og hrútunum, sem hiá þeim hafa vaxed um̃ sumarid. Medal til þessa nefner hann Antim. crud. og Asam fætidam. Enn vort fe munde geta vered þessa án, ef fiárhúsin væru hofd nógu kold og rúmgód og fed vel fódrad med gódu heye og fenge opt ad drecka; kannske þá være og gott ad gefa fenu solvahnefa Cap. 3. §. 3.

# VII. Cap.

## Um̃ vetrarhirding fiarins.

### §. 1. Um̃ wtelegu fiarins.

J Cap. 2. §. 1. hefer eg talad um̃ Fiárins útelegur og þar halded meira af þeim enn hýsíngu, og er eg fastr vid þá meiníng, ef landslag vort leyfde ad brúka þvilíka medferd; enn nú er einasta efnid um̃ útelegu fiárins framan af vetrinum. Þá veniu brúka aller bændur ad láta fed liggia úte medan gott gengr, og þeß lengr þad verdr, þvi betra þiker þad; enda er þad almenn bænda trú, ad fe bate sig fram̃ under Jól í bærelegum vetrum ef þad liggr úte, enn ecke ef þad liggr inne. Um̃ útelegu fiár hefer eg heyrt þessa bænda reglu: **Medgn fed þyder wr boole sinu er best ad lata þad liggia wte.**

## §. 2. Voktun wtelegufiaar.

Um fed, sem úteliggr þarf opt ad vitia og á hvorium dege, þegar ad tekr ad þúsina ad og iafnvel vera hiá þvi allann daginn, so madr hafe allt víst og reka þad í vissann og hentugan̄ stad á hvorin qvolde. Hefr margr af þvi stundum stórann skada haft, ad þá kof-

kosold hafe fliótlega áhlavped, hefr se
þeirra vered ovlst. Enn þegar sed er
reked í vissan stad á qvoldin má gánga
þar ad þvi vísu á morgnana, nema þad
mæte einhverre stiggd, sem stundum ber
vid ad dýrid stygger se úr bólinu, ser-
deiles under kosold.

## §. 3. Um Fiarhirder.

Alltíd og á ollum tímum ríðr mik-
ed á gódum fiármanne; enn þó mest
á veturnar þegar fylgia skal roskna se
á daginn og gefa þvi fódr á nóttunne.
Um fiármannin er þúngt reglur ad gefa,
þvi gódr fiármadr er ei so avdfengen
og þad er einslags gáfa, sem ollum er ei
gefen ad fara rett med savdfe; enn hvad
er þad þó sem Guds ótte, digd og á-
stundan kunne ei ad giora. Sá ypp-
arlege Svenske Boye gefr medal ann-
ars eina hofudreglu um alla peníngs-
voktun, ad sá sem á ad hirda um
skepnurnar, hann verde ad hafa kiær-
leika til þeirra, og vid avngvar skepnur
ríðr meira á þvi enn vid savdkyndur-
nar; Sá ei ejskar þær og þiker vænt

um̄ þær ødrum skepnum framar, hann er alldrei rett godr fiármadr. Fár er sá góðr fiármadr, sem ei hefr vanez vid kyndur í uppvexte sínum; fyrst á sumardag ad vera smaladrengr og sídan á vetrar dag med ødrum elldre. Verkid siálft sýner þad ad fiármadrinn verdr ad vera lettr á fæte og lagadr til gavngu, og eru þvi þyngslamenn þar til óhentuger og þó eru letkingiar verster. Arvakr hlýtr savdamadr ad vera, þvi sá sem seint nenner á fætur á sumardag til fiár, hann giorer ser tvofalldt ervide og svíkr af marga ærnyt og giorer miken óhag búinu med þvi ad koma seint heim med fed, og á vetrum kemr fe þad miøg illa, ef þvi er seint gefed. Þad er ómissande kostr á savdamanne ad hann se gløggr þegar gengr ad einhvorre kynd eitthvad, og gete strax saknad þá vantar. Þá menn hafa menn þekt, sem, þó þeir ættu nockur hundrud fiár, toldu þad þó ecke, enn søknudu þó strax ef eitthvad vantade. Eg hefe haft þann savdamann, sem fór miked nærre þvi ad siá feigd á kyndum, so ad þad sem

sem honum leiz ei á á havstin lifde sialdan vetrinn yfer.*) Meinlavsann vil eg savdamann og gódlyndann, þvi savdaþráe er vidbrugded, og hiálpar ei ad halda til kapps vid soddan skepnur med hardhyge, bolve og ragne. Þrisinn á hann líka ad vera þvi siárins hálfa líf er under þvi komed ad þad se vel þrifed og heyin verda þá driúgare. Þad seger sig siálft ad hann þarf ad kunna til verks síns. Þad sem eg átte fyrst ad nefna var þetta ad savdamadr bidi Gud ad koma til med ser og blessa verk sitt og erfide, þvi þess þarf vid alla hlute.**)

## §. 4. Umm Fiárhunda.

So ómissande, sem góder fiárhundar eru, so vandfengner eru þeir. Under kyninu er miked komed, þvi þeir sem eru af

*) Mr. Thorodd i seger þesse Kennemerke: á hravstu og heilbrigdu se eru avgun hvít og blá med ravdum rákum; enn á óhravstu se eru avgun gulleit med bleikum rákum, døpur af vatne edr vessa med smá eitlum.

**) Sumer vilia ad Savdamadr mege hafa kynd í se og eg er einnenn á þeirre Meiníng.

af gódu fiárhunda kyne eru avdvandare enn hiner. Savdamadr á ad hafa 2. hunda, þvi þar sem ad er ordug fenadar geymsla annar ei einn hundr þvi; enda skylde annad vera sneñalenn hvólpr,*) sem yrde vanen med þeim eldre hundinum uñ sumarid epter, og ei ridr þad minst á fiármanninum ad venia fiárhundinn. Fiárhundrinn er betre lodinn enn snoggr, so ad hann þole ad vera úte á vetrinum í frostum og kofuldum. J Svíarike hafa þeir so vanda hunda ad þeir mannlavst vakta fed, og í Færeyium er miked gott fiárhunda kyn.**) Sá sem útvegade oß gott Fiárhunda og Dýrhunda kyn og kiæme þvi upp her í lande, hann være vissulega bæde lavna og þacklætes verdur.

## §. 5. Uñ Forustusavde.

Slæmt er orded ad fá góda fiárhunda; enn nú bágara ad fá rett gagnlega

*) J þvi DANSKA OECONOMISKA MAGAZINE seger einn Norskr Forstandsmadr ad fiárhundahvolpar ege ad vera kastader í Januario edr snema í Februario.

**) Lucas Debes seger ad í Færeyium seu þeir hundar, sem gete teked rofkenn savdinn og halded honum óskemdum þar til madr kemr.

lega og góda ſavdamenn; enn ómøgu-legt ad fá góda foruſtuſavde. Godr foruſtuſavdr er meſta gerſeme og Þvi ſeger Løgbók vor Kavpab. C. 6. „ Þrevetr foruſtugeldíngr og eldre, Þad „ er metſe.“ Um foruſtu ſavde til forna hafa menn ſoddan fráſøgr ad ſum-um mætti ótrúlegar Þikia; eg vilde óſka ad eg kynne nockrar reglur til ad koma Þeim upp, ſo vîſt ſem Þad er ein hin Þarfaſta eign gódum fiárbónda; enn her er meſt under náttúru ſkepnunnar komed og Þo getr vanen ótrúanlega miked giort. Madr ſá í nordrlande ſem eg ólz upp hiá, ordlagdr Þar fyrer forſtand og ſkin-ſeme og hinn beſte búÞegn, hann talde Þo ei epter ſer ad fylgia ſiálfr ſe ſínu á vetrardag iafnvel hann hefde góð efne og folksrád til ad láta adra giora Þad. Hann hafde allríd frárækaſavde og giorde Þad meſt vane ſem hann hafde á Þeim. Væner gelder ſavder eru allt-íd ſtiggre enn ærnar og leid hann Þeim alldrei ad vera aptarlega í fiárhnappi-num, vard Þá allríd einhvør undann ad fara. Þegar einn hafde nú nockra ſtund

ſtund broted undan, fór hann fram̃ í fiárhnappinn og ſtuggade vid ødrum og ſtundum ſló hann flatre rekunne utan á hann; ſo ad hann hrock fram̃ fyrer, og þañveg vaude hann þá á alltíd ad fara undan og ſo ad ſkiptaz til þeß, og hafde hann med þvi móte alltíd hiálplega foruſtuſavde.*) Þetta þrent ſkylde þvi hvor eiñ fiárbónde ſtunda epter ad hafa: Gódann Savdamann, góda Fiárhunda og góda Foruſtuſavde, og getr hann þá vid þad haft bæde fleira og vænna fe med iøfnum koſtnade, heldr enn hinn ſem þetta þreyt vantar.

## §. 6. Um̃ hyſing ſavdfiaar.

Þad verdr alldrei of opt advarad um̃ þad ad hafa húſin-þurr, vel kold og



*) Sagt hefr mer vered frá Preſte einum, ſem lifde á øndverdum mínum døgum; hañ var forſtandsmadr mikell og brúkade margt þad í búſkap ſínum, ſem vert er epter ad taka; Hann hafde lánga Stavng med ſkreppu á endanum, med hvørre hann ſeildez fram̃ í fiárhnappinn og ſtiggde ſína geldu ſavde fram̃ undann, ſem þar vid urdu fráræker.

rúmgód. Þad mætte ſynaz ad þegar mikel regn og illvidre gánga á havſtin og framanaf vetrinum, ad þá være betra ad hýſa fe á nóttunne og eg vilde til þeß ráda ef fiárhús være þá þurr og lekalaus; enn med þvi þad er þá ógiarnan, þvi her veſtanlands halda eingen hús miklum havſtregnum, þá er betra ad láta fed liggia úte; eins þó nockurt fiúk edr kafald giøre ámedan ecke kemr brynia á fed. Enn þegar alvarlega er fared ad þúſtna ad, ſkal fed hýſa á hvørre nótt; þvi allt eins er þad gott fyrer fed þegar húſin eru þurr, vel køld og rúmgód, ad þvi einu undanteknu ad fed, þegar fared er ad hýſa þad, verdr fyrer meira rekſtre heldr enn ámedan þad liggr úte í haganum.

## §. 7. Um heygiøfina.

Þad brúka ſumer ad fá dalitlu hèye á ieturnar fyrer fed, þá þad kemr inn á qvøldin, ſerdeiles þegar kallt er. Enn eg held ei af þvi ámedan fed hefr nóga iord úte; þvi þegar þad á von á þeſſum fáu ſtráum þegar þad kemr inn, ſvelter þad ſig fyrer þav og uner verr úte á iord-

iordunne. Eg vil þvi eckert gefa rosknu fe framan af vetrinum þegar þad fær fyllar sſnar úte; enn þegar þad fær þær ecke, er beſt ad gefa þvi vel, og ſiá til ad fed alldrei miſſe qvidin.

## §. 8. Um̃ Saltſleikiuna.

Aller þeir útlendſku og eins Baron **Haſtfer** halda miked af þvi ad fá fenu eitthvad ſalt til ad ſleikia um̃. **Boye** ſeger ad þad geyme fed fyrer allrahanda ſkadlegum ſiúkdómum, og fyrerſkrifar ad hnoda ſaman vid 1. mørk tiøre, handfylle af Malurtarhøfdum, handfylle af þurrum ſteittum einerberium og ſo miked af moldu ſalte, ſem þarf til þeß ad degid verde ſteinhart. Ver høfum ei Malurt og kynnum í hennar ſtad ad brúka hvannarót. Enn Hr. **Haſtfer** fyrerſkrifar miklu auddveldara deig. Tak þángøſku og blanda med þvage og gior af deig ſo hart ſem mogulega verdr; þegar þetta deig er ſett fyrer fed, venur þad ſig ſmámſaman til ad ſleikia þad, þegar þad einaſta finnr af þvi hlandlyktina. Til ad búa hentuglega um̃ þetta

Sleikiudeig, þá er best ad negla líten trýgel vid endastafin á iotunum, so hátt ad fed ád eins náe upp í hann og láta þar í deiged og festa ofanyfer eitt edr tvö svigabrot í kroß.

## §. 9. Um̃ brundtíimann.

Af þvi sem eg i 1. Cap. 34. og 5. §§. hefe um̃ saudburdinn talad, er audskiled hvör mín meiníng er um̃ brundstídina. Bwalög segia: "Þegar vetr „ áhorfez þúnglega, skal hleypa ám til „ Þorláksmessu,*) enn lamgimbrum átta „ dag." Þegar þesse regla hefr vered brúkud

*) Þá húgvekin hafa vitrer menn gefed mer, adß í þessare reglu se meint Þorláksmessa gamla Stíls, sem var 10. edr 11. dögum seinna enn nú, og þeir hafa rett; enn þó fylger ei þar af ad þeir gömlu hafe hleypt til í almennum árum seinna enn ver nú, þvi þad er audsed af þessare Reglu, og fyrst þeir hleyptu Lambgimbrum til 10. dögum seinna enn rosknum ám, munu þeir almen̄elega hafa hleypt Lambgimbrum til á Þorláksmessu enn rosknum ám herum̃ 10 dögum fyrre.

brúkud, hefr brundtídin byriaz fyrr enn nú, þvi epter henne er hún byriud í seinasta lage, sem hún er nú byriud í fyrsta lage, og er þad bevísing til þeß ad þesse regla mune vera miked gomul, og hefr þá vered annadhvört, ad se hefr vered betr giort enn nú, edr vorin hafa þá ei vered eins hord, Nú er þad sumra bænda regla ad hleypa roſknum ám til á lavgardagenn þegar 9. Vikur eru af vetre, enn þeir eru þó fleire sem ei hleypa til fyrr enn mille Jóla og Attadags. **Bwalog** segia ad ærin gánge med 5. mánude; ef her eru reiknader þrítugnættir mánuder, þá er þad samstemma þvi sem Riddare **Línnæus** seger ad hún gánge med í 150. daga. Almenn trú er þad ad ærin gánge med í 20. Vikr og sama seger þad Engelska **Bwskapar-Fræde** og adrer útlendsker Skrifarár. A þetta er bágt ad ætla, þvi brundtídin stendr yfer í hálfann mánud edr lengr; enn sú ær sem fær med vaxande túngle gengr skemr med enn hin sem fær med mínkande, og er þvi athugande hvorsu á túngle stendr þeg-

 ar

ar til, er hleypt. Eg vil helst hylla til ad ær mínar fáe med vaxande túngle.

## §. 10. Ad lata fe wt og inn.

Egenlega er savdfenu, ecke sídr enn flestüm sdrum skepnum, nátturlegt ad fá snemma fódr sitt, og skal þvi savdamadr vera búenn ad gefa fe hey, i skamdeginu þegar ecke er utláted, um hálzbyrtu; enda láta savdfe út um hálfbyrtu þegar út er láted í skamdeginu. Ef þá er frost lited er vel ad halda fenu ute sem lengst og láta ei inn fyrr enn í rokre; enn ad halda fe úte í miklum horkum lenge, giorer avngvann goda, þvi so víst sem þad er, ad kuldinu er savdfenu yfred hollr, þá má þvi þó ofbióda, og hófed er best í hvorium leik. Þad er nockurnvegen óhætt ad halda fe úte ámedan þad stendr vel á, og má ei fara epter fáeinum kyndum, þvi sumar eru hardar og láta sig í sídare log, sumar þar ámóte óhardar og duga ei til ad standa lenge á og þarf optast ad hafa þær ser í lage og giora þeim betr. J lángdeginu þegar kemr fram á máinude, ad halda fe lenge úte í horkum,

er óvit, og þvi ſkal þá ei ſo ſnemma útláta og ei fram á qvöld með það úte vera; það er og náttúrlegt að ær þole það ei eins þegar eldið fer að ſíga á þær og þær þá farnar að leggia af, eins og fyrer miðian vetr. Spurn hefer eg af góðum og nærgætnum fiárbónda og þótte hann í ſumu undarlegr: hann hafde haft þann vana í hørkum að hleypa fe ſínu inn á daginn og láta það vera iñe ſtundarkorn meðan þvi hlínaðe og láta það ſo út aptr. Þetta var ſannlega góð aðferð, enda hafðe hann og átt vænt fe. Enn þeſſu verðr ei viðkomeð þar ſem beitin er lángt í burt, og være þá yfreð gott að hafa byrge í haganum til að hleypa fenu inní ámeðan því hírnaðe í hamſe. Slíkt byrge þyrfte ei hátt eðr ſo vandað eins og það ſem fe ſkylde liggia inní á nóttunne og være þvi ei meira enn tveggia daga verk að koma þvi upp.

## §. 11. Að ſtanda yfer fe.

Það var gamall góðr ſiðr að fylgia fe og ſtanda yfer þvi ef ei var þvi

betra úte; nú er þesse sidr eins og annar manndómr allt ofmiog farenn ad leggiaz af. Eg hefer og heyrt til þeirra sem halda þad gott ad láta fed vera siálfrádt; enn þeir hafa víst alldrei vered hiá fe þegar frost og skafrenníngar hafa vered. Sá sem hefr sed til fiár þegar so ástendr, hann getr bored vitne um, hvorsu ad þad hardasta af því þá einasta stendr á, hitt stendr þá saman í hnapp og sumt þad óhardasta leggz í hnappinum. Bónde sá, sem eg ádr umgat er eg ólz upp hiá, hann var allt af ad gánga innan um fed og líta því híngad og þángad á hniótana og rett velia beitina handa því, sem hann sá ad illa fylgde ser ad. Mun þá gott þegar so ber under ad liggia heima vid bæ, og láta fed ábyrgiaz sig siálft? Ad eg tale ei um ef menn vildu nú brúka þann gamlann gódann manndóm ad moka ofan af fyrer fe. Til forna átte einn madr ad geyma hundrad fiár og moka ofan af fyrer 60, enn hafa adra 60 i kropsunum.

## §. 12. Enn nw um heygiöf fiar.

Þó eg §. 7. vilde ei láta gefa fe framan af vetrinum þegar þad fær fyllar

sínar úte, þá er þad allt annad þegar kemr fram̃ á mánude. J inneſtødum láta bænd-ur þad alment duga framan af vetrinum, ad gefa fe vel einuſinne á dag og eg held þad hiálpe, þvi fáe fed þá nóg, heldr þad qvidnum. Ut ſkal fed láta þó þad ei iørd hafe, þá þad er mikenvart búed ad eta af iøtunum til ad ſnióvga ſer ef ei er miked kafald og ámedan ſópa húſinn edr bera inná ſnió ef þeß þarf med. Þeg-ar fram̃ á mánude kemr ſkal fe gefa tvi-ſvar á dag i inneſtødum, og þó þad hafe iørd, ſkal þó ánum gefa á qvøldin, þá þær inn koma, ſerdeiles ef froſt og kuld-ar gánga, og þad þeß betr ſem meira á lídr. Til þeß hafa og gamler menn øt-lad, þad ſiá menn á Búaløgum, ad þeir vildu láta gefa helmínge meira hey á ein-mánude heldr enn á Þorra. Under þeſſ-are giøf er þad meſt komed, hvørſu ær fæda vid ſteckinn og hvørſu Þær halda á ſer þegar á ſumarid lídr. Og þvi ad eins munu gelder ſauder vel ſkeraz, ad þeim ſe gott giort. Under lambburdinn þyrfte ánum beſt ad giora ſerdeiles ef vor-id er hart, enn þad vantar optaſt nær,

og þvi er þad besta rád ad láta þær fá seint, so ad þær kynne þeß heldr ad fá þá grænt gras.

## §. 13: Um̃ hold a savdfe a vor.

Þad er gamallt mál, ad ær miólke best þá á Vor á merg stande, og má þetta samanbera vid þad sem ádr er sagt Cap. 1. §. 6. Þad er annad gamallt mál og regla um̃ Savdpeníng, ad ærin skule vera brunslett í midia Sóe enn biórhál á sumarmálum; enn þad þeckia ei aller og er hægra ad sýna en segia frá.

## §. 14. Um̃ wtelegu fiar a vorin.

Þegar bærelega vorar og þar sem nockr skiól eru fyrer nordan nædíngum, þar er allrabest ad láta fed liggia úte; þvi lambsullum ánum háer þad ofrmiøg ad reka þær heim og heiman á hvorium dege. Þá skal fe helst halda þar, sem síst hefr vered snióbert á vetrinum, þvi þar sem sniórinn hefr áleged allann vetrinn, þar er best þegar uppleyser á vorin og þesse er orsøkin hvarfyrer ad vor útegángr á lande er haldinn betre enn í eyium, þvi

þær

þær eru snióberar allann vetrinn; enn þad sem eins hefr vered snióbert á lande, þad er þá enn lakara enn eyarnar.

# VIII. Cap.

## §. 1. Um̃ sumarhirding saydfiarins.

Þar sem eg í 1. Cap. talade um medferd á lømbunum vid steckinn, so var þad sama talad um̃ medferdina á ánum, og hefer eg nú eckert her framar um̃ ad tala fyrr enn búed er ad fœra frá. Um̃ geldfed er ei heldr neitt ad segia utan ad þad er reked á fiallid þegar búed er af þvi ad taka.

## §. 2. Ad reka fed.

Þad er gømul regla og hún þó góð, ad reka skule pening hart í haga á sumardag enn hægt úr; heldu gamler meñ þá ad fe yrde spakara: Hitt er og annad, ad þegar júvur miked fe er reked hart úr haganum, er hætt vid ad miólkin hristez úr spenunum, serdeiles er þad athugaverdt um̃ kýr. Enn eingen regla er midr

geymd enn þeſſe, þvi nú er vída giørt hvert ámote henne. Anum er líted eitt viked af qvíabólinu og liggia þær ſo fram̃ epter deginum, enn ſo hart eru þær heim reknar ad þær freyda af mæde og gánga upp og nidr. Þad er reyndr hlutr ad þad fe ſem illa er reked í hagann koſtar tvøfalda fyrerhøfn; þvi þegar þá á ad ſækia þad aptr, er þad komed í fremſtu og lengſtu leiter. Þar ámóte þegar fed er lángt reked í hagañ, fer þad ad ſonnu í ſínar vana leiter, enn þegar þad er þar komed, hvecker þad ſer ſiálft optaſtnær aptr tilbaka og mæter ſmalamanninum þegar hann fer til. Þó er fe miked hætt vid ad ráſa á goluna, og þegar hún ſtendr af fialle má ſmalamadr þeß fyrrej tilfara.

## §. 3. Ad ſitia ad fe at ſumrum.

Sá gódr vane ad ſitia ad fe á ſumrum um̃ daga er nú vídaſt aflagdr þad tilveit. Enn til ſkam̃s tíma, ef ecke enn nú, hafa Hrútfirdíngar þad giørt, og ſo hefr þad brúkad vered í fyrndinne, ſem ráda má bæde af log-

um og ſøgum.*) Þar ſem góder ſumar-hagar eru lángt frá bænum, þar er þetta ſerílage navdſynlegt, þvi annars nióta menn þeirra ecke til gagnſins. Eg hefe nú teked þetta upp og læt ſitia ad qvíſe mínu úr þvi búted er frá ad færa og mun eg þann vana ei nidrleggia; þvi ſídan hefer eg fenged meire og jafnare miólk, ecke einaſta þeß vegna ad ærnar miſſa þá ſídr máls; heldr ſerdeiles hins ad fed ráſar þá minna, þvi fiárins ofmiked ſiálſræde er til eintóms ſkada. Nóg er þad ad fed fáe ad dreyfa ſer um góda hagana, enn fáe þad ad ráſa epter vild ſinne áfram, giörer þad miklu miña gagn, þvi þó fed ráſe leitar þad ei alltíd þar fyrer ad gódum högum; enn þegar dyggr ſmalamadr ad þvi ſitr, getr hann halded þvi þar til hagaña, ſem þeir eru beſter. Þeß vegna þar ſem er nockud tolvverdt fe, er þad tilvinnande ad vakta þad med þeſſu mote.

§. 4.

*) Þar til hafa brúkader vered Smalaſkálar, ſem ſiá má af Krókarefs Søgu, og menn gamler ſem enn nu lifa muna til þeirra í einſtöku ſtødum í Ungdæme ſínu.

## §. 4. Naturhirding fiaar a sumrin.

I odrum londum er þad alltídt ad hýsa fe á sumardag á nóttunne: hvort sú venia her i lande munde gód vera, læt eg ósagt, þó mer liklegt þike ad þad munde allteins reynaz um ær eins og um kýr. Kýr miólka allteins vel, og hallda miklu iafnara á ser, þá þær eru látnar liggia inne á nóttunne allt sumarid, og þvi munde þad þá ei eins um ærnar, þær liggia þó uti hagan- um, og so kynne þær einsvel ad liggia inne. Fólk hefr viliad innbyrla mer ad kýr mínar miólkudu midr, ef eg lete þær ei út savngu fyrer midian morgun, ei ad sídr hefer eg þó lagt þad af, og læt þær nú ei fyrre út, enn þær eru um leid miólkadar, og sídan reknar, og miólka þær allteins vel fyrer þvi. Edr þvi skylde þad ei sama vera, hvort Pen- íngr liggr til midsmorguns, og fer þá ad bíta, edr hann fer ad bíta um sól- ar uppkomu, og leggz aptr under mid- ian morgun? Eg held þvi ad sá sem haf- de efne og framqvæmd til ad byggia ser upp

upp' hentugt hús, og þad sem þýngst er, þyrde ad synndga ámóte þeim gamla afgud Vananum, hann munde ei einasta avngvu tapa, þó hann lete ær sínar á nóttunne inneliggia; heldr og munde hann þar vid gódann og miken áburd græda, sem er einn hinn stædste ábate. Enn soddan eitt hús yrde ad vera miked rúmgott og med mørgum gluggum og vindavgum, so þar være alldrei heitara inne enn þó ærnar læge úte, og so þyrfte ad halda þvi skhreinu, sem hægt være medan eingen stórregn kiæme; eñ heldr skylde fe úteliggia, enn þad óhreint yrde. Ei hefer eg getad funded þad i gømlum søgum ad fornmenn hafe hýst fe sitt á sumrum, hitt má siá af **Lands Lb.** 16. Ad þar er tilætlad ad menn reke búsmala t haga á qvøldum; þó hefer eg þad grunsamt ad sumer hafe ei um̃ nætur láted fe sitt gánga siálfala; edr hvada **geilar** eru þad sem Niála nefner Cap. 80? þegar þeir Hogne og Skarpheidin fóru i Odda ad hefna Gunnars, ráku þeir fed heim á húsinn, enn þeir Hroalldr og Tiorve ráku



þad uppí geilarnar.*) Eg hefe spurt mig fyrer hiá kunnugum mönnum í Odda, hvort þar være nockurt [ad ørnefne, sem heite Geilar, og hefr eingen getad mer þad sagt. Víða á iørdum hefer eg sed tvo túngarda hvorn utanyfer ødrum, enn þó so nána ad ei hafa vered giorder vegna túnavka, þvi þar hefr vered

*) Her vid má samanbera þad sem Niála Cap. 77. seger um TRADIRNAR á Hlídarenda fyrer ofan (húsa- edr vallar-) gard, hvar Gissur Hvíte med sína menn nam stadar, og máske þá hafe ei enn vered fared ad liggia inne, enda kunnu þeir og úthleypa, og þó munde rackinn Sámr hafa orded þess var. Þángad teygde Þorkell hundinn, þvi þar sá hann mennina fyrer og þar var Önundr rett hiá ad høggva hann, so þetta nefnaz þar þreifanlega GEILAR og þætte mer líkast ad í fyrstu hafe ei stílad vered GEILAR NOCKRAR, heldr GEILARNAR, seger einn viss lærdr madr. TRADGIÖF sem nefnez Lb. 12. vília sumer draga af soddan Trød, hvar hey, sem se er gesed ofanunder sig fer til spillers. Slíkar Trader siáz enn nú og heita so á vel mørgum bæjum og sum bøle eru af þeim nefnd.

vered frek húsbreidd ámille þeirra og þó hafa þeir vered miklu lengre enn so ad kyñe ad hafa vered Qvíar; munu þetta ei hafa vered **Geilarnar**? og ef eg man rett, þá hafa þav gierde vidlíkt nafn, sem Hr. **Strøm** seger ad þeir á Sunnmœre í Norege láte saudpeníng sinn liggia innk. Og hvornen sem þessu er vared, þá være þad sannlega gott ef madr hefde einn edr fleire eyresvelle afgirdta í hentugum stad og bælde þar saudfé sitt á hvorre nóttu allt sumarid. Eg vandez þvi í Nordrlande ad þegar búed var ad hirda tún var fé bælt á þvi í vissum stad, þar sem var ei hardlendt og spratt þar gras ágiæta vel.

## §. 5. Ad vera tíimanlega ad miøltum.

Þad vilia aller góder bændr ad miøltum og búverkum se tímanlega afloked og allt búed á dagmálum. Ad sønnu er mer óliósi hvort vorer gomlu og mannskapar gódu forfedur hafa þetta vid Dagmálin skordad, enda ber og lærdum monnum á um þad nær þesse Dagmál hafe halden vered. Hitt se eg af LandsL. b. 16. ad

K snems

snemma hafa þeir láted heimreka búsmalann, þad er og líklegt ad ei hafe þeir mataz fyrr enn loked var búverkum og heite þad þvi dagverdarmál. Enn fullnógr tíme er þad ef peníngr kemr heim strax epter midian morgun edr klukkan 6, ad hafa loked búverkum Kl. 7½ þá sumer halda dagmál, so sem þad eyktarmark er enn nú um þad bil á flestum bæjum og eru þó sumstadar tvenn og heita þá þau sídare lete dagmál. Og víst ætla eg ad þeirra Dagverdarmál hafe útevered Kl. 9. Þegar þad umbreittez ei fyrer einhvoriar serlegar orsaker, og kemr þetta vel saman vid eliun og árvekne fornmanna, sem í heidne heldu þad iafnvel fyrer trúar artikula ad fara snemma til verks síns. Munde ei gott ad brína þetta fyrer fólke enn nú á þessum dogum? víst være þad þarfara enn ad leggia eliun eg árvekne út fyrer heidínglega búksorg. Allteins vildu vorer gódu forfedur hafa gódar hættur á qvoldin. Snemma frá verkum á qvoldin og snemma til verka á morgnana, þad var þeirra regla. Nú gengr þetta allt of vída andsæles. A sumrin eru búverk

ei

ei búenn fyrr enn komed er hádege, og þar epter fara onnur verk; enn á qvøldin er vered ad gavfa fram̃ á nótt. Á veturnar er sumstadar ei fared á fætur fyrr enn under rockur, og sídan er vakad vid liós fram̃ under dag.

## §. 6. Um̃ epterhreitu.

Þad er almenn gódra bænda trú her vestanlands ad seu ærnar lenge hreittar epter fram̃epter sumrinu, þá halde þær þeß lakar á ser og geldez fyrre upp, enda verde magrare under vetrinn og þvi láta sumer ei hreita epter utan viku edr hálfann mánud, epter fráfærurnar og sumer nockru lengr. Þar sem eg ólz upp fyrer nordan visse eg ad fed var epter fráfærurnar og fram̃epter sumrinu miolkad þrem̃ um mioltum, og het þá sú onnur Midmiolt*) enn hin sídasta Epterhreita og þó miólk-



*) Egenlega var adferdin þesse: fyrst var miólkud herum hálf nyt úr ánum og het þad fyrermiøllt; sídan voru þær áptr miólkadar og teked til á þeim fyrstu, og þad var køllud Midmiøllt, enn þá voru þær þó ei þurrtottadar; sídan voru

miólkade þetta se vel framan af vetrinum og fram under Jólaföstu; en bæde var, ad þetta se mátte fara í fiorunu, enda var þvi vel gefed á veturnar. Þetta sama er mer sagt um se á Dalfiordum hvar hagar eru optast góder og vetrarríke miked og fenu þvi vel hey gefed. Her munu þvi hvorutveggiu hafa rett fyrer ser, þeir sem líted láta se epterhreita af þvi þad á ad lifa mest á útegánginum og honum stundum misiofnum, og hiner, sem láta lengr epter hreita af þvi se þeirra á von á gódu elde á veturnar.

## §. 7. Ad leggia miolt af fe.

Þad sem nú er sagt um epterhreitúna, þad sama gilder um ad leggia af fe mioltina, forsiáler bændur, sem mest verda ad láta fe sitt lifa á útegánginum, leggia snemma af, og sumer strax um hofudsdagsleite, ad láta miólka fe sitt í bæde

vom kyrnar miólkadar, enn ærnar bidu ámedan. Í þridia sinn voru ærnar miólkadar, og þad var kollud Epterhreyta, og var miklu mestr kostrinn í þeirre Miólk.

í bæde mál; enn þeir eru þó fleire, sem halda á þvi bádum mioltum framunder Mikelsmessu. Þar sem fe á von á gódre giof má miólka þad í bæde mál framunder vetrnætur, ef hagar eru góder.

## §. 8. Um fiørufe.

Hr. Hastfer seger ad fiorufe, se ullarlakara enn annad fe: eg þore þar eckert ámóte ad hafa, iafnvel ad mer þike þad ei samstemma vid vora reynslu. I Nordrlande, þar sem fe gengr í fioru, er þad ei ullarlakara enn annad fe, nema ef fiallafe kynne ullarbetra ad vera. Fe þad sem her gengr í eyium, og þar fyrer ogso í fiorune, er eins ullargott, ef ei ullarbetra, enn þad sem alltaf er á lande. Omótmælanlegr hlutr er þad ad Fiorufe miólkar meira, og þar sem góð fiara er, miólkar þad, epter sem mer er sagt, ogso kostugra enn landfe. Og so þiker þad sumstadar, ad þegar fed kemr frá fiorune í fiallhaga þá se eins og settr se tappe í þad, enda flæder þetta fe miólkinne á haustin þá þad náer aptr til fiorunnar. Ei ser þad heldr á holdum þeß, þvi eyiafe,

se, sem sieldt gengr í fiorunne, er optast feitara heldr enn landse. Fyrst Fioruse er nú eins feitt edr feitara enn landse; fyrst þad miólkar bæde meira og kostugra, þvi mætte þad þá ei vera sama um̃ ullina? Læknarar kenna ad oll kraptagód fæda se manninum eins holl, sem eins vel kockaz med honum, og ad allt se under kockuninne í maganum komed, og dagleg reynsla stadfester þetta. Þvi mun þetta sama ei gilda um̃ fed, þvi þesser sióar ávexter sem fed etr, eru ei einasta kostuger, heldr og avdvelder til kockunar í maganum, uppvekia matarlystina og NB. eru salter, sem er og so þie anlegt til ullargiædanna. Þesse selta orvar fed til ad drecka vatnid, og þad ad fed á epter miólkar so miked og pissar, er vottur til þess ad blód og vessar gánga avdveldlega ígegnum líkaman, og þar fyrer kunna þeir ei ad verda þickre edr seigare vid þad sem fed etr í fiorunne; *) heldr miklu framar hreiner og þun-

*) J þeirre Disputatiu sem Hr. Land-Physicus Biarne Pálsson hefr halded í Kaupenhavn 1749 De Algæ facchariferæ origine

Hunner og Hesser Hunnu og Hreinu vessar
 sem

ne, partibus & uſu hefr hann bæde af experientia og examinatione chymica giørt þessar concluſiones. 1mo. *Alga tam animalibus quadrupedibus quam etiam hominibus jucundum, bonum ac firmum alimentum ſuppeditat*, unde muliercula qvædam cum infantulo lactante in ſinu qvodam atrocia tempeſtatum & æſtu maris interclusa trium hebdomadarum ſpatio cruda alga & fuco arboreo alato eduli (Biøllum) ſe & infantem ſuſtentavit Grönlandi alga parciſſime utuntur ne pinqveſcant. 2do *Alga viribus medicamentoſis pollet*; nam a) *calefacit* adeoqve in frigidis morbis vel bilis inertia utiliſſima videtur. b) *involvit*, adeoqve in diarrhæa, puncturis inqve rhevmatiſmis, phthiſi ipſa aliaqve acrimonia, præſertim acida non eſt contemnenda. Ad minimum tutius involvit qvam gelatinæ carnium vel oſſium, nam & recens inodora eſt & adeo non putreſcit aliterve acreſcit, qvin potius dulceſcat ſev vineſcat vel blandiſſime aceſcat. c) *Apetitum & ſitim excitat & auget* adeoqve convenit

in

sem so avdveldlega gánga sgegnum fiár-
ins líkama eru þad sem giora ullina goda.
Enn med því fiaran er ei fenu einhlýt,
heldr hlýtr þad ad hafa annad fódr med
til jórturs, og þetta vantar fiorúse opt,
því menn láta þad biargaz vid fiaruna og
lifa á því sem þad týner á hniótum og
hædum, sinu og línge, þá má þetta slæma
landfódr vera nóg orsök til ullarskemd-
anna.*) Þad er og hægt ad skilia, hvar
syrer

in anorexia, nausea & cæteris ventriculi frigidi morbis; hinc pinqvefacit, proinde inservit contra atrophiam, sterilitatem, impotentiam. d) *Postremo excretiones promovet* adeoqve in morbis obstructionum præsertim frigidis. ex. gr. scorbuto frigido vel laxo perutilis erit. Þetta hefer eg tilfært til ad sýna þad ad eg ei án orsaka efaz i hvort fiaran se ullargiædum fiárins óholl, ogso til ad stirkia þad sem eg hefe ádr tilráded Cap. 3. §. 3. og Cap. 6. §. 7. n. 7. ad gefa fenu sölin.

*) Þad hafa merker og góder Bændur sagt mer, sem bæde hafa búed vid sió þar sandsed hefr genged i fiörunne ogso til Dala ad þad verde mikln sterra, feitara og miólke þicke miólk
enn

fyrer menn verda ei varer vid þessa slæmu ull á eyiafe: þad liggr alltaf úte, og veit því eckert af þeirre sífeldu umbreitíng á hita og kulda, sem húsfe hefr á lande og sem er hin allra skadlegasta fyrer ullina; Beit í eyum er god, serdeiles framanaf vetrum, og iafnaz vid góda heygiof á lande, sem er þad heilnæmasta fyrer ullina; og þessa gódu beit stirkia þav soltu fiörugros, so þad hefr því betra af henne. Ad þessu athugudu þiker mer vande á ad segia þad fiörubeitin skeme ullina á fenu.

## §. 9. Um Færeqvíiar.

Þad kemr ei egenlega vid Fiárhirdsíngunne um Færeqvíarnar ad tala, og þó er þad miøg skildt og er eitt ágiætt medal til ad koma rækt í tún. Eg hefe heyrt margan bónda hæla þeim, og óska ser ad ætte



enn landfe, þó má þad hafa góda giøf edr góda beit, því ærin úttrodin af fiørunne þarf Vetrúngs fódur. Aptr hafa þeir sagt mer ad brúnslett fe dræpez í hor ef þad fenge ei annad enn fiøruna og má þar af álykta ad fiøru ávexter hiálpe meira til meltíngar fædunnar enn ad þeir siálfer fæde.

ætte þær; enn vilinn er ei einhlýtr og meira baggar mørgum efna= og árædesleyse heldr enn kergia og vilialeyse, og uppá margt meira kosta bændur heldr enn uppá þessar qvíar, ef þeir fenge vidin. Færeqvíar skal ei þar brúka, sem hardlendt er; heldr þar sem er iarddiúpt og vid deiglendt. Þessarfæreqvíar være ómissande eyiamønnum, sem verda ad vakta fe sitt vid siónum ad ei flæde,*) og giæte þeir láted fe sitt liggia þar inni árid um kríng, og þar med vered óhulter um þad og hast þar fyrer kannske einne kúnne fleira af þvi sem þeir med qvíunum ræktudu; og þær være ad minne ætlan senn hollare enn nockurt hús, þvi í þeim være fed frítt fyrer þeirre sífeldu umbreitíng af hita og kulda, sem þad verdr optast í fiárhúsunum ad þola.

## §. 10. Um aldr fiaarins og afnaam.

Nú

*) Þad er reyndr hlutr ad fe þad sem venz vid sió og er siálfrádt lætr sig ógiarnan flæda og er þad þvi óvit ad vera ad veria þvi fiøruna; enn ad gá ad þvi í fiørunne er varlegra.

Nú hefer eg genged ígegnum ferhvorn fiárins aldr nefnel. Lambsaldrin, uppvaxtar aldrinn og fullordins aldrinn, og úr þvi veit eg aungva adra athugaseme vid sed, þá þad eldez meira, utan ef þad er sú ad láta sed af á hentugum tíma. Gelder saudder eru ei kallader gamler fyrr enn þeir eru fiogra vetra, og þá hafa þeir vered fyrst haldner í fullu verde, gamall savdrinn 5. avrum; þó segia bændur ad savder seu bester á staka árinu, annadhvort þrevetrer edr 5. vetra. Eg held ad savder sem egá gott únger batne ei stórt úr þvi þeir eru þrevetrer; hiner sem slæmt ega únger bata sig lengr. Þeir sem vanser eru savdum fara miog nærre því af átektinne, serdeiles á kodranum, hvornen savder skeraz. Nú mundu menn og geta nærre fared af vigtinne ásamt med átektinne um verd savda. Næturfoltinn savdr sem vog 10½ fiórd. vard hiá mer epter Nýa Taxtanum fyrer 58. fisk. og var hann twævetr og hafde 1. fiórd. mors. Annar eins gamall sem vog næturfolten 10 fiórd. og hafde 10 mk. mors vard þó fyrer 40. fiska og vidlíka reyndez þad

um

ūm̄ adra ſavde. Ver láta ſumer verda gamlar og tannlavſar, enn þad er ſkade; betra er ad gelda þær ſnemma þá þær eru 6. og 7. vetra og iafnaz þær þá ſtundum vid miſindes ſavde tvævetra.

## §. 11. Ad ala ſavde til ſlaaturs.

I gódum eyium þar ſem Skarfa-kál vex, verda ſavder orrúanlega feiter, enn þær hafa fæſter. Sá ſem hefde efne og ſamvitſku til þeß ad ala ſavd á miólk og todu, hann getr og giort hañ ſo feitann, ſem hann vill. Enn ſá ſem hefr gódann Kálgard getr þad einnenn. Kálrætur eru ypparlegar til ad feita med, og þær geta aller haft, þvi þær útheimta avngva ſerlega Iord ne fyrerhofn og ſavdnum þikia þær betre enn þad beſta hey og ſo kálſtofnar, og hefde madr tek á ad taka ſavdnum hentuglega blód, getr hann feitt hann med litlum koſtnade; enn hann ſkal vera í koldu húſe og fá ſalt þeß á mille edr þó heldr ſolvahnefa. Eg hefe giort tilravn med þetta og miſtókz mer þó med ad velia kindina, ſem var miog ſtigg

og

og óþialg í medferdinne og þó tók hún merkelegum bata. Til þessa bende eg einasta, ef einhvor vilde giøra frekare tilraun, þvi nú beralar mørinn vel lítelfiørlegt ómak og aungvann kostnad, þó menn gefe kyndinne Kálfsiofnana og rœturnar, sem ei verdr betr nytt; eg meina þetta ei heldr utan til þeirra sem ei halda þad fyrer vansóma edr vanhelgun ad líta epter gagne sínu.

# IX. Cap.

## §. 1. Um̃ Savdfiærins Siwkdooma.

Um Savdfiárins siúkdóma hefr Hr. Hastfer skrifad og mun þvi ollu best ad fylgia, sem hann fyrerseger, og ei get eg þeirra her þarfyrer, ad eg ætlez til ad giøra þad betr, þvi af allre fiárins medferd er eg minst frodr í þessare, þvi þó þad bere vid ad lækníngar á savdfe luckez, þá er hitt þó tídara ad menn vinna fyrer gýg, og kannske hafe illt eitt í ábatann, ad þad veika spille

þvi

þvi óſiúka edr gete af ſer eitthvad veikt edr vanfært. Þó vil eg ſegia frá þeim medolum, ſem eg hefer heyrt brúkud vid einn edr annann kiárins ſiúkdóm.

## §. 2. Um̃ Brœdaſoott.

Brœdaſoott telr Hr. Haſtfer medal þeirra olæknanlegu kiárins ſiúkdóma, og heldr ad hún orſakez helſt af þvi ad fed etr eitthvad banvænt enda getr fed eins og adrar Skepnur fenged ſo grimma Nidrfalls ſótt ad þad deyr allt í einu. Hr. E. Olafsſon ſeger ad kyndina bláſe fliótlega upp og deye á ſkommum tíma. Hann ſeger ad ſumer gefe inn fenu vid þeſſu heita miólk edr og heitt Brennevín med ſteittum pipar og eingefere. Sú Brádaſótt ſem her giorer meſtann ſkada í eyium ſo ad einn madr miſſer ſtundum til 1 edr 2. hundrada er ſkiæduſt í hlákum og þýd-vidrum hafa þvi nockrer halded ad hún orſakadez af einhvorium óhollum dompum. Vid hana verdr ſtundum vart á lande þar ſem fe kemr ſialdan edr alldrei nærre ſió. Hennar egenleg adferd

er

r þetta, Fyrst fer kyndin ad snúaz og
ringia sig saman; se hún þá strax skor-
inn, sem best er, ádr veikin giörer hana
óæta, þá sez blár blettr á vinstrinne;
enn þá hún má lengr vidleika hleypr
vinstrin oll saman og verdr meir eins
og hlaup, kindin þembez oll upp og
frodufeller, dettr sídan nidr og er daud.
Þetta giörez optar á litille stundu, so
sem klukkutíma og sialdan varer þad 6.
tíma og þegar þá er skinned tekid af
skepnunne er ullinn faren ad losna, ser-
deiles á vombinne og í nárunum, enn
kroppurinn er allr blár og oætr. Vid
þetta verdr sialdan edr alldrei vart á
sumrin. Af því ad vid þetta verdr
fyrst vart í vinstrine sez ad þad kemr
af einhvorre banvænnre fædu. Þad sem
undarlegast er, er ad Lomb fá hartnær
alldrei Brádasótt og sialdnar þad sem
er þrevett edr eldra, enn feni á annan vetr
er mest hætt vid henne. Ei kemr hún
af fiorunne, því te sem aldrei kemr í
fioru og þad sem er á giof inni húsum
fær hana ogso. Ef hún kemr af þeim
urtum sem fed etr, því fær þad hana
þá

þá ei eins á sumrin? Af hvorju kemr hún þá? Sumer segia, ad ef kyndin se strax teken og bylt á hrigginn á kaf ofaní kallt vatn, þá batnz henne.

## §. 3. Svartedavde.

Svartedavde sem gengr í kríngum Arnarfiord fyrer vestan og ecke utan odruhvoriumegen í senn, er víst eckert annad enn þesse sama brádasótt. Siá E. Olafssonar Islands-Reisu §. 648. Vid þessa veike er so miked undarlegt ad almúganum er oll vorkun þó hann halde hana koma af einhvorium ónátturlegum orsökum, og þó eg gete ei á þad fallez, ætla eg ad vid henne kunne heldr ad duga þav medol, sem brúkaz fyrer fram til ad veria henne, ef nockr þav visse, heldr enn þav medol sem brúkaz epter ad hún er komen.*)



*) Einn Engelskr fyrerskeifar, þegar sed hefr eted i sig einhvoria ólifian edr fær einhvoria ókennelegá veike ad blódga þad í nárunum og kríngum róuna og gefa þvi inn 2 edr fleire

## §. 4. Fiørufall.

Fiørufall orsakaz af þvi þá savdarinn etr ofaní sig Skerann (scolopendram corpore lato sqvamoso pedibus utrinqve viginti qvinqve) þad er sagt ad hann ríse sig strax útigegnum vembina og síduna og drepe skiepnuna á litlum tíma *) Þar eru fleire sióar ormar sem drepa ogso fiørufe og þar til nefnner Hr. E. Olafsson pag. 1006 einn Fiølfætíng (Polypum).



fleire spæne af karlmánnshlande þeß sem er heill og hravstr. Sá Svenske Boye seger ad madr skule slá þvi æd under avgunum, edr ef þad luckaz ecke, þá ad skera nedan af rónunne og gefa kyndinne þaraf inn nockra blóddropa. Vile ei blódid stemmaz, þá skal leggia volgt hrossatad vid edr brenna sárid. Sídan byhdr hann ad gefa inn senu samansaxadar ymsar urter og rætur, hvaraf ver høfum hvannarótina og sæhvanarótina og rót Mariuvende: enn Gentiana er margslags.

*) Vid Fiørufallinu segia sumer ad egenlega eige þad ad bylta savdnum strax á hrigginn, þvi ad Skerinn fare þarvid innaní gored og drepez þá.

§. 5.

**Nidrfallssótt** nefner Hr. **Haster**: vid hana verdr ei mjøg vart á fenu, edr kannſke ad hitt ſe heldr, ad menn þeckia hana ecke; þvi þá einhvor kynd dettr haſtarlega útaf, hvar med ſtundum fylger froðufall, er þad kalladr **Snertr**, eins og þad kome af einhvor-in illu; enn hitt mun þó ſannara ad þad ſe ſnertr af Nidrfallsſótt. J þeſſu tilfelle er þad brúkad ad blódga kyndina, og ad brenna eitthvad fyrer noſum hennar ſer-deiles Breñeſtein; og þad verdr ópt ad gódu, þvi þetta hefr og hiálpad ſtundum þá meñ hafa fenged þeſſa veike.

## §. 6. Vatns-ſótt.

Vid hana verdr ei ſo opt vart hiá oſs. Hr. **Hastfer** rádleggr ad háñka þá kynd ſem hana fær med vïderiág ned-an í hálſin, og halda ſárinu þar med allt af opnu. Hr. **Boye** ſeger ad ſú Cap. 7. §. 8. nefnda ſaltſleikia í tíma brúk-ud ſe hin allrabeſta, og ſkule þar þá lát-az ſamanvid hnefe af Eineroſku.

§. 7.

## §. 7. Hofudsott.

Hún má ogso kallaz ein med þeim ólæknanlegu siúkdómum, og ecke vita meñ neitt gagnlegt medal vid henne. Hún er tvennslags: onnur sem setr vatnssullinn aptan til í hofdinu þar sem mænan byrjar. Pad mætte reyna ad skera aptanaf rónnne, eg hefe reynt þad á einne kynd, sem þó var ætlud til dráps, og vard ei vart vid neinn vatnssull í hennar hofde þá hún var skoren. Ef ofmiked vill blæda þá verdr ad bregda glóande járne á sárid, og stemmez þá strax blódrásin. Hr. Æ. Olafsson seger, þó epter odrum, ad þegar vatnssullrinn se framan í hofdinu, se ennesbeinid fyrer ofan augun veikt og þunt, so þad láte undan fingrinum, og ege þá ad stínga med hnífsodde innúr siálfu beininu, so þar uñ útrenne þesse vilsa. Vidlíkt þessu hefe eg og heyrt, og er þetta hægt ad reyna, þvi sauðkyndin verdr ad skeraz af hvort sem heldr er.

## §. 8. Lwngna- og Lifrar-sott.

Kennemerke til þessara Siúkdóma telr Hr. Æ. Olafsson. 1.) Mikenn

og sifelldann Hósta. 2.) Toged dettr af bógaullinne, og 3.) Þegar saudrinn stendr inne, slær út um hann sudda eins og hielu. Hr. Hastfer seger Andrennann se og merke til lifrar edr gallsóttar. Orsakirnar kunna ad sönnu ad vera margar, enn þó mun slæmt og miglad hey vera hin almennasta orsök. Þad besta medal er halded siálfrunned hákallslyse, tveir spæner af þvi fyrer saudinn. Megn sýra munde og góð vera, þvi þad er reyndr hlutr ad megn súr útdrífr ormana, og munde hun þvi holl---

§. 9.

Þegar fed hefr **Niaalg.** Adrer rádleggia ad gefa inn fenn í vatne, edr Brennevíne smátt malen birkekol. Siálfrunned hákallslyse er þá og gott.

§. 10.

**Lyssýke** edr **Bwklavp** fær fe sialdan skadlegt, uran þad se horad, og fáe þá annadhvort miked gott fódr edr miog gódann haga, og med þvi móte drepz þad opt, og verdr þvi ad ætla þvi af med fódr og haga giædin. Vid þessu gefa sumer fenn

fenu inn hvítt hunda skarn í miólk malid.

## §. 11. Iwfrboolga.

Um hana hefe eg líted ádr talad Cap. 1. §. 12. Þad besta medal vid henne fyrerframm er, ad bera hráa tioru á júvrid, og þá fær fe ei íllt í þad, sem er líkleg bevísíng til þeß ad hún orsakez af vondum ormum, sem fordaz tioruna. Sumer leggia heitan surtarbrand vid júvrid. Adrer reykia þad med breñesteine og binda þar vid sundrmared lifiagras. Læknarar kenna ad Bomolia inntekenn og áboren ege vid ormabite á monnum, kannske ad siálfrunned hákallslýse inngefed ánne og bored á júvrid, kynne og ad hafa góda verkan.

## §. 12.

**Blinda** vill fe ei opt til, og meinaz ad kome af ofmikille snióbirte, og verdr þá ad láta fed vera inne medan so er, og þad strax sem vart verdr vid þad; Opt luckaz ad láta salt í eyrum á fenu og binda fyrer ofan.

§. 13.

Þegar Dýr edr vargar rífa fed, er hrár ſelr vidbunden halden þad beſta medal.

§. 14.

Vid beinbrote ſegia ſumer gott ad bera á vel ſúrt ſmior.

## §. 15. Fiærfaralldr.

Um̃ Fiærlws og Klæda hefe eg ádr Cap. 1 §, 28. og Cap. 4 §. 9. talad, og vil eg þar aungvu vidbæta. Menn munu vænta ad eg tale her um Faralldrid og lækníng vid þvi: þad er náſkyldt kládanum, og ei vantar þad ad Utlendſker, ſem klaga yfer þeſſare ſomu veike, gefe þar um̃ margar reglur; líka hofum ver þar um̃ eina og adra fyrerſkript fenged, og viſt mætte þad ſýnaz navdſynlegt ad kunna þeß lækníng; þvi grunſamt hefe eg, ad þad alldrei meir upprætez til fulls her í lande. Ecke ad ſídr leide eg þad hiá mer, og ſkrifa eckert um̃ Fara[illegible]rsſe edr þeß lækníng; þvi eg viide ad þa[illegible] alldrei hiá oß med odru enn davdanum læknad yrde. Ei er þad þar fyrer ad eg halde þad ólæknanlegt; helldr þar fyrer

fyrer ad eg held þessa Veikleika lækníng oß bæde óhenta og óhaganlega. Óhenta held eg hana þeß vegna, ad ver hofum ei efne á henne. Skyldum ver brúka útlendsk medol og kostnadarsama fyrerhofn, vilde þad kosta oß einsmiked edr meira enn þad veika fe, og ef iafnvel þeir efnudu af oß, getum valla teked nockur lomb edr kyndur frá, sem þarf betur ad giora, hvad munde þá nú faraldrsfe, sem bæde giorer óuýt oll þau fiárhús, sem þad inní kemr, og þar fyrer utan þarf fiárhús útaf fyrer sig, sem eingen ouunr saudkynd má inní koma, og hvor vill ábyrgiaz þad? þó þar være 1 Sýslumadr í hvorium Hrepp og 10 Hreppstiórar, so er þad ofætlan, þvi þad kann ad ske án alls vilia og vitundar Bóndans. Óhaganlega held eg þessa Fiárfaraldrs lækníng fyrer oß, þvi hún útheimter miked og gott fódr, so ad þad hey sem 12 Sauder eru vel haldner á, hrockr ecke handa 6. Hún útheimter hita; þvi bæde verdr fe?? ad klippaz og sveita, og so má þad aldrei útí kallt vedr koma, og so hefum ver

tapad þar med ollu þvi gagne, sem ver hofum af útegánginum, af vorum landgiædum og voru hreina og kalda lopte, sem eg held se þad helsta, sem giorer vort se so hravst og þrisagott. Davdinn, Davdinn er þad vissasta, kostnadarminsta og heilnæmasta medal; oll oñur eru óviß, háskaleg og kostnadarsom.



Reg-

# Reglur um̃ Fiarhirding.

1 Þar skal se bera snemma þar sem þvi verdr velgiørt, enn seint þar sem þvi er midr giørdt. Cap. 1. § 2. 4.
2. Savdabragd verdr epter þvi, sem savdnum er giørt úngum. Cap. 1. § 5.
3 Eldid á vetrinum á ad sambióda haga-giædunum á sumrinu. Cap. 1. § 6.
4 Lømb skulu hafa so mikla miólk, sem þav geta torgad framan af Steck-iartímanum. : Cap. 1. §. 8.
5 Snemma skal lømbum stía á qvøld-um, og hleypa snemma til á morg-num. : : Cap. 1. §. 11.
6. Elld skal í steck bera. Cap. 1. §. 12.
7. Krór skulu vera kaldar og rúmgód-ar og þurrar. - Cap. 1. §. 13. 14.
8 Allar ær skulu heim ad stecknum rek-az, þó ei bored hafe edr hafe ny-bored. - Cap: 1. §. 16.
9 Lyse skal í lømb bera, jafnvel þó avng-va lús hafe. - Cap. 1. §. 19.
10 Til Brundsavda skulu veliaz, þav væn-stu og feleguſtu einlit lømb, sem eru undan þrifagódum, ullargódum ám,

L 5 þreveti-

þrevetrum og fiógravetra, þeim sem vel miólka og vel gánga á vetur, og eru af happagódu undaneldes-kyne. - Cap. 1. §. 20.

11. Lømb skulu geldaz þriggia vikna, med minkande túngle, í gódu vedre, - Cap. 1. §. 21.

12. Lomb skulu umm steck hlavpa og á fiall rekaz. - Cap. 1. §. 25. 27.

13. A Fráfærum er gott ad giøra lømbum keitubad - Cap. 1. §. 28.

14 Lømb skal reka i midiann, afrett - Cap. 1. §. 29.

15 Under þvi er komed fiárins hálfa líf ad þad verde ei óhreint Cap. 2. §. 3.

16 Borger og Byrge fyrer fe eru ómißande -, Cap. 2. §. 2. 3.

17 Hey vid Byrge og Beitarhús er harla navdsynlegt -, Cap. 2. §. 5.

18 Leka á Savdse er þvi miøg skadlegt - Cap. 2. §. 7.

19 Ofmikell hite í fiárhúsum er fe hinn skadlegaste - Cap. 2. §. 9.

20 Lømb skulu liggia úte med fenu medan þav leggia ei af Cap. 3. §. 1.

21 Fiárhey skal vera gott og grænt Cap. 3. §. 2.

22. Freka skal giøf vid ær epter þvi sem elde gengr á þær Cap. 3. §. 6

23.



# Inntak Bæklingsins.







Regist-

  

# Registur.

## A.



E.

## E.



## F.



Fiár-

## J.



## K.



Kir-

## M.

## Lagfæring og Viddbæter.

S. L.
3. 18. vetur, l. vetrar.
4. 24. synez, l. sýnaz.
10. " Þetta leggz til §. 5.

Epter ad þennann Bækling var fared ad prenta, hefer eg talad vid einn mann, sem visse tvø dæme til þeß i Nordurlande ad bændur brúkudu ær stu= ar i kúa stad á veturnar. Þad er reyndr hlutr ad þad má láta ásavd bera, so snemma sem madr vill; þvi epter því sem Lombin eru sneṁalen og þeim velgiort og vel alen fyrsta og annann vetr, epter þvi gánga ær snemma, og þá þær hafa fyrsta vetr bored á sumarmálum, mega þær annann vetr bera á Góu og þridia vetr á Jólum; og eru þær þá ordnar fiogra edr fiṁ vetra. Þó madr lete nú 6. ær bera á Jólum, og kostade uppá þær kyr= fódrinu og hvor ær miólkade ei meira eñ 3. merkur, og hann skiære øll Lombinn, eins og hann verdr ad skera kálfinn und= ann kúnne, og þessar ær væru aptr geldar ordnar á vetrnóttum, þá er eing=

 inn

inn kýr, sem giore eins miked gagn og þessar 6. ær; þvi fyrer utan 18. merkur miólkur í mál, er ullinn af 6. Am, afklippt epter fardaga, og eitt kálfskinn gilder nú líted á móte 6. Lambskinnum. Og 6. ær í bærelegum vetre, serdeiles ef þær hafa fioru, taka avngvanvegen upp kýrfódrid, þó þær seu kappaldar. Her er nú samburdurinn á mille einnrar kýr og sex ánna. Og líkt vill verda þó ær, sem bera um sumarmál, seu bornar saman vid Kúna, og serdeiles þess vegna ad menn láta lomb þá lifa, og verda þær ætíd gagnsamare enn kyrin. Og þar sem menn þurfa annars, vegna vetrar ríkes edr annarra orsaka, miklu uppá savdfe ad kosta, munde þvilík medferd vera búmanninum allra hollust, og þó skylde kyrnar ei þar fyrer med ollu aflegg-ia. Sá sem kynne hvorutveggiu vel saman ad koma epter landslage og odru ásig-komulage, honum munde miklu best vegna. Enn nú er þad orded of alment ad menn qvelia bæde Navt- og Savd-pening, til þess ad geta haft þess fleira, og hafa kannske minna gagn, enn hvorutvegge úrkyn-

iaz.

iaz. Enn þetta verdr ad vorkenna epter Vitsmunum, Landslage og odru áſigkomulage.

14. 10. eins, þarf þar ei.
30. 13. þad l. þav.
46. 20. margreyt, l. margreynt.
51. 4. Orden, l. ordnar.
55. 24. þeſſer. l. þeſſar.
60. 24. þá. l. þó.
67. 14. §. 29. l. §. 28.
71. 26. margar. l. magrar.
74. 26. velþeittum. l. vel þettum.
99. 18. l. ad taka ei oflángt uppá.
101. 7. Lamblavſumgimbrum. l. lamblavſum gimbrum.
104. 6. Savdabragder. l. Savdabragd er.
105. 1. hrocked og miked. l. hrocked, og miked.
122. 5. þroſta. l. þroſka.
124. 1. hafe. l. hafa.
, 25. l. elſkar.
127. 5. annad l. annar.
128. 20. frarækaſavde. l. frárækaſavde
131. , þetta leggz vid §. 7.

Ad veturnar, þegar fared er ad hýſa fe, ſkal ſtrax venia hvad fyrer ſig í ſitt hús epter þeß aldre og vænleik: þetta gengr opt tregt, ſerdeiles, þá hefd eru húſaſkipte vid fe, ſem alment er, ad hús handa lombum er alltíd brúkad hid ſama, og verdr þá þad vetrgamla ad fara í ann-

ad

ad hús, og briálaz þá eins fyrer hinu fenu. Til þeß nú ad venia hvad fyrer sig af fenu í sitt hús, verdr ad sá litlu heye á joturnar fyrer þad, medan þad er ad veniaz vid.

Ei þarf her ad ámálga um þad Lomb-um þurfe át ad kenna; enn veturgam-allt fe, sem hefr Lomb í eyium genged fyrsta vetrinn, og þar fyrer ei át lært, þarf þeß ogso med, og verdr ad hafa gódann athuga, ad þad allt lære strax átid, og láta þad jafnvel vera inne eitt edr tvo daga til þeß.

131. 12. tiøre. l. tiøru.
132. 7. 34. l. 3. 4 og 5. §§.
134. = þetta l. og vid §. 9.

Um á annann vetr, mætte vel nockru seinna tilhleypa heldr enn þeim eldre, og þó verdr þeim yngre optast betr ad giora.

142. 12. úti haganum. l. úte í haganum.
= 25. hafde, l. hefde.
149. 23. fiæder. l. flæder.
154. 8. Þessarfæreqviar l. þessar fære-qviar.

Þess-

Þessar og aðrar Prentvillur; so og rang bókstöfun og aðgreiningar merke rang eðr undanfeld, sem sumt kann að vera Mscr. að kenna, er góð-fús lesare beðenn að virða á hægra veg og lagfæra.



